NOKKRAR

# TÆKIFÆRISRÆÐUR,

EPTIR

SÍRA MAGNÚS JÓNSSON,
1828 - 1901
AÐSTOÐARPREST Í MÚLA Í AÐALREYKJADAL.

---

ÚTGEFANDI:

J. J. BORGFIRÐINGUR.

AKUREYRI 1859.

PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU NORÐUR - OG AUSTUR-UMDÆMISINS, HJÁ H. HELGASYNI.

Velæruverðugum

herra prófasti

# Síra Halldóri Jónssyni,

sóknarpresti til Hofssafnaðar í Vopnafirði,

elskuðum kenniföður sínum

með þakklátri elsku og virðing

eignar

**höfundurinn.**

# YFIRLIT EFNISINS.

## I.

# Fermingarræða,

(haldin í Múlakirkju vorið 1858).

---

Elskuleg börn!

Eins og jeg nú, á þessari helgu og hátíðlegu stundu, í þessari ræðu minni, mun helzt eiga tal við yður, þá sný jeg nú þegar máli mínu til yðar, án undangangandi almennra athugasemda. Jeg á tal við yður, sem standið hjer allt í kringum mig, sem standið hjer næst mjer, á þessum heilaga stað, eins og í hálfhring, gagnvart mjer, fyrir framan drottins altari. Augum vonarinnar, augum eptirvæntingarinnar, ekki án kvíða, og þó ekki án einhverrar sællar og þó saklausrar tilhlökkunar hafið þjer, á undanförnum tíma, litið til þessa dags, sem nú er yður upprunninn og yfir stendur, til þessarar hátíðlegu stundar, sem yður mun aldrei úr minni líða, alla yðar lífdaga. Já, elskuleg börn, þjer hafið litið til þessar stundar, bæði fagnaðarfull, og kvíðafull: fagnað-

arfull yfir því, að verða nú, eptir þessa stund, og álítast fyrir eigin staðfestingu, andsvör og játningu, tekin í fullorðinna kristinna manna tölu, og opinberlega, með eigin greind og frjálsum vilja, staðfest sem frjálsir borgarar Krists kirkju, í hverri að öllum mönnum getur veitzt, allt hið góða, eptirsóknarverða, sæla, sem þeir geta óskað sjer. Sjá, þessi stund er yður nú upprunnin, og í sannleika hafið þjer haft orsök til, að líta til hennar glöð og fagnandi. En þjer hafið, eins og jeg sagði, líka litið til þessa dags með nokkrum kvíða og áhyggju. Þjer hafið fundið, þótt það hafi nú verið, ef til vill lítið fyrir sumum, vandasamt og erfitt, að búa yður undir þessa stund, yður hefur fundizt það erfitt að búa yður verðuglega og tilhlýðilega undir þessa þýðingarmiklu og blessunarríku stund, á hverri þjer opinberlega eigið að sýna, að þjer sjeuð hæfileg að stíga þetta alvarlega stig. Sjá, þessi stund er þá líka komin, þessi stund, sem þjer hafið með erfiðismunum búið yður undir, þessi stund, sem þjer hafið litið til, ekki án alls kvíða. En kvíðið nú ekki lengur fyrir þessari stund, elskuleg börn, verið ekki óttaslegin, ekki órósöm; hlustið með

rósamri eptirtekt á orð mín hjer í dag, og þegar þjer eigið að svara mjer, þá gætið þess, að svara með stilltri rósemi og einurð, jeg og allur þessi drottins söfnuður, sem hjer tekur þátt í þessa dags heilögu athöfn, tökum innilegan þátt í tilfinningum yðvarra ungu hjartna, vjer allir eins og beiðumst þess af yður, og óskum þess af heilum hug, að sálir yðar verði nú að vísu alvarlegar, en þó rósamar, stilltar og einarðar. Ó, að heilagur himneskur fögnuður uppfyllti þær, en þó alvarleg og stillt áhyggja. Fagnaður yfir því, að fá nú, með frjálsri sjálfsstaðfestingu að reiknast meðal fullorðinna lima Krists heilögu kirkju, sem öllum veitir náð, frið og sælu, en áhyggju af því, að hjer verður á yður lögð, mikil skuldbinding, til hverrar þjer eigið að muna, alla æfi, þjer skuldbindið yður til, í öllu að þjóna guði og Kristi, í öllu að forðast það sem rangt er, forðast syndina og spillinguna, hvað mikla sjálfsafneitun, hvað mikla erfiðleika, sem það kostar, hvert eptir þeirri náð, sem guð veitir sjerhverju af yður. Já, eptir þessum orðnm mínum til yðar, vona jeg að yður skiljist þessi mín upphvatning til yðar, sem jeg enn vil endurtaka til yðar: Fagnið

nú á þessum degi, sönnum og hreinum fögnuði hjartans, því þjer verðið með frjálsri sjálfsstaðfestingu, limir kristilegrar kirkju; með því að staðfesta yðar skírnarsáttmála verðið þjer staðfest í inntekningu vors kristilega fjelags, fjelags yðvarra eldri bræðra og systra, en gleymið ekki alvöru þessarar stundar, gleymið ekki áhyggjunni fyrir því, að geta breytt köllun yðvarri verðuglega, gleymið ekki skuldbindingunni, sem hjer fylgir með, gleymið ekki loforðinu, sem þjer nú ætlið að vinna fyrir guðs alskygna augliti. Hugleiðið alvarlega, að þjer innan lítillar stundar verðið búin að sverja guði æfilanga þjónustu, æfilanga elsku, æfilanga hlýðni, æfilanga trúmennsku. Æ, að þessar tilfinningar, hreinn og sæll fögnuður, með sannarlegri hreinni áhyggju sje nú ríkjandi í sálum yðar; og það er líka mín einlæg löngun og ásetningur með þessum mínum orðum, að glæða þessar tilfinningar og efla, einkum hina sönnu, kristilegu áhyggju, það er minn vilji og viðleitni, eins og líka stundum að undanförnu, er jeg hef átt tal við yður, að brýna fyrir yður þýðing þessarar stundar, styrkja hjá yður sannkristilega ásetninga, þá ásetninga, þær tilfinningar, sem æ t í ð væru ríkjandi og hefðu yfirhönd, og, væru yður

minnistæðar, alla yðar æfi. Í þessum tilgangi finn jeg ekkert úr guðs orði, eða heil. ritningu, sem eins sje yfirgripsmikið og almennt, og þó einfalt og skiljanlegt og yður líka eins handgengið og kunnugt, til að leggja út af fyrir yður, til að leggja yður á hjarta, eins og það hið huggunarríka og alvarlega boðorð og fyrirheit, sem stendur í

Opinb. b. 2, 10.

Vertu trúr allt til dauðans, þá skal jeg gefa þjer lífsins kórónu.

Þetta eru þau orð, sem jeg ætla að leggja til grundvallar, fyrir mínum hugleiðingum og ávörpum til yðar. Guðs andi hefur talað þessi orð, fyrir munn hins heilaga rithöfundar, Krist andi talaði þau til hans, eða Kristur talaði þau til hans, eða eins og það hljóðar í 8. v. á undan: Þetta segir hinn fyrsti, og hinn síðasti, sá sem dó, og sá sem endurlifnaði. Eins og allt n. t. er opinberun frá Kristi, eins mega og þessi orð í sannleika heimfærast til hans, sem hans orð. Þessi orð, eins og öll orð n. ts., yfir höfuð, auglýsa oss guðs ráð og vilja, oss til betrunar og frelsis, því allt n. t. inniheldur eins og jeg vjek á, opinberun fyrir Krist, inniheldur, eins og þjer hafið lært

í lærdómnum yðar allt það, sem guð hefur viljað augljóst gjöra, fyrir öllum heiminum. Heyrið þá, kæru börn, n. t., eins og biflian yfir höfuð, og guðs orð, á yður, einmitt yður að auglýsast, yður að verða handgengið og kunnugt, því þetta er guðs vilji; hinn kristilegi sannleiki, hinir kristilegu lærdómar, eiga að innrætast yður, þjer eigið að heyra þá og læra, fremur öllu öðru, því þeir fæða og næra hinn æðra part mannsins, betur en allt annað, hin kristilega kenning og guðs orð fæðir sálina, lagar hana, eflir hennar framför, huggar hana, frelsar hana. Þess vegna er yður þörf á þekkingu og uppfræðingu í kristilegum sannindum, í kristilegri trú, þjer þurfið að vita hverju þjer eigið að trúa, og hvað þjer eigið að gjöra. Þjer þurfið að þekkja yður sjálf, og þjer þurfið að þekkja yðar ákvörðun til frelsunar og sælu, þjer þurfið að þekkja frelsara yðvarn og konung, sem segir þessi orð: Vertú trúr allt til dauðans, þá skal jeg gefa þjer lífsins kórónu, og þjer þurfið að fá inn í sál yðar hugmynd þessara orða eða skilning þeirra og geyma þá hugmynd þar vandlega á yðar ógengnu lífsleið. — Þó að vjer, sem

eldri erum, og þekkjum heiminn betur en þjer, þó vjer köllum yður nú saklaus, eða, þótt þjer sjeuð á sakleysis aldri, þá viljum vjer samt fá yður til þess, þegar í tíma, að finna það, í fylsnum yðvarra sálna og hjartna, að þar felst syndugt eðli; ó, finnið þjer ekki þetta þegar nú, þótt þjer sjeuð ung? Segir ekki meðvitund yðar yður öllum, að þjer hafið ekki ætíð breytt, talað eða hugsað, eins og átti að vera? Segir ekki rödd í yðar eigin brjósti yður þetta: Þetta áttu að gjöra því það er gott; þetta áttu ekki að gjöra því það er illt. Til þessarar raddar heyrið þjer í brjósti yðru, og hún heitir samvizka. Vitið því og hugleiðið nákvæmlega, að þjer eruð syndug, samvizkan segir yður það, guðs orð segir yður það, og þessi orð: Vertu trúr, benda líka til mannsins synduga eðlis, því þau mega útleggjast þannig: vertú, jafnframt því, að vera trúr í ástundun hins góða, — þá vertú trúr í því, að hafna syndinni, vaka yfir hjarta þínu, sem hin almenna spilling, erfðasyndin, hefur náð að saurga. Æ, stingið þá hendinni í yðar eigin barm, elskuleg börn, og finnið til þessa sannleika, að þjer hafið breyskt

eðli, að þjer eruð syndug, því það er gagnlegt, að þekkja sitt eigið ástand," gagnlegt, að þekkja sjálfan sig. Þetta þurfið þjer, og og líka hitt, eins og jeg sagði, þjer þurfið að þekkja frelsara yðvarn. Þjer hafið áður, og að undanförnu, hvert yðar eptir sinni orku, ástundun, gáfum, lært að þekkja frelsarann, sannleikans konung, sem hefur gefið yður þetta boð og fyrirheit: Vertú trúr allt til dauðans, svo skal jeg gefa þjer lífsins kórónu. ' Sæl eruð þjer, að þjer hafið lært að þekkja Jesúm Krist, sem yðar frelsara og yðar drottinn; þjer hafið lært það, að hann bætir fyrir syndir yðar, hann dó, svo þjer mættuð lifa, hann verður yður nálægur með krapti síns anda, og sinni náð, hann lifir ætíð til að biðja fyrir yður. Yður er sagt að vera trú, yður er sagt að syndga ekki, en guðs orð segir yður líka, af því eðli yðar er breyskt: Ef þjer syndgið; þá hafið þjer árnaðarmanninn, hjá föðurnum, Jesúm Krist, hinn rjettláta, sem er forlíkun fyrir vorar syndir, þó ekki aðeins fyrir vorar syndir, heldur og allrar veraldarinnar syndir. Guði sje lof, að þjer öll

vitið og þekkið svo mikið um Krist, að þjer vitið þetta, þjer vitið, hvort sem það er ljóst eða óljóst fyrir yður, að Jesús Kristur er kominn í heiminn til að frelsa mennina, svo að allir þeir, sem á hann trúa, ekki skuli fyrir farast, heldur hafa eilíft líf, að hann hefur frætt mennina í hinum hreina sannleika, um guð, um heiminn, um manninn, um syndina, um dauðann, um syndanna fyrirgefningu, um frelsunina, um eilíft líf, um skylduna, um það, í hverju og hvernig þjer eigið að vera trú til dauðans, svo þjer öðlizt lífsins kórónu, sem er hið eilífa lífið; þetta hefur yður verið kennt, 'og um þetta hef jeg opt átt tal við yður, því eins og allra ákvörðun er að verða sælir, með því að vera trúir, vera dyggðugir og forðast syndina, og eins og þjer nú í dag eigið að lofa æfilangri trúmennsku, eigið að lofa að vera trú til dauðans, eins verðið þjer líka að vita, eins og þjer nú líka nokkuð vitið, eptir áðursýndu, hver sá er, sem þjer sverjið hollustu og trúmennsku, og í hverju þessi trúmennska er fólgin, og fleira, sem hjer stendur í sambandi við, og þettað verðið þjer nú að sýna hjer opinberlega, að þjer þekkið. Svarið mjer því, í safnaðarins áheyrn,

með athygli og rósemd uppá þær spurningar, sem jeg legg fyrir yður úr yðar kristindómi.

---

Þjer hafið þá, kæru börn, staðið fyrir mjer nokkurskonar próf, opinberlega í áheyrn alls þessa safnaðar, í áheyrn foreldra yðar og vandamanna, til þess að bæði jeg og þjer gætuð opinberlega sýnt það, að þjer hafið svo mikla þekkingu á kristilegum fræðum, á kristilegri trú og rjettri breytni, að þjer fyrirstöðulaust getið orðið, fyrir eigin frjálsa játningu, staðfest í yðar skírnarsáttmála, í yðar kristindómi, sem fullþroskaðir limir kristilegrar kirkju á jörðunni, eins og við hinir eldri, sem höfum unnið það loforð, sem þjer nú munuð vinna. Jeg vildi nærri helzt leiða hjá mjer að minnast á það, að þekking yðar, kunnátta og skilningur á kristilegum sannindum er misjafn, en mjer finnst jeg þó verði að drepa á það. Margir hjer viðstaddir vita þetta víst, eins og líka þessi söfnuður drottins hefur mátt heyra nokkuð, en þó er mjer ef til vill þetta hvað bezt kunnugt sjálfum. En, elskulegu börnin mín, jeg vil ekki fara neitt að ásaka yður, jeg veit ekki betur en jeg þvert á móti geti sagt yður það til upplífgunar, að þjer hafið þó yfir

höfuð stundað að búa yður undir þessa stund, og jeg held, að sum yðar hafi þó styrkt mig í þeirri sannfæringu, að góður vilji er sigursæll. Jeg tek yður nú öll til staðfestingar í yðar kristindómi, hjer fyrir drottins altari, ekki án þeirrar vonar og þess trausts, að þjer, hverra uppfræðing jeg álít miður, eins og raunar þjer öll yfir höfuð, munið enn stunda að efla þekkinguna í yðar kristindómi, þekkinguna í trúnni, í kærleikanum til guðs og manna. Jeg get líka sagt yður það til huggunar, að af engum heimtar drottinn meira en hann sjálfur, hinn blessaði og líknarfulli faðir hefur gefið krapta eða sálargáfur til að afkasta, eins og þeir hinir sömu hafa líka minna pundi að svara. En sá sem hefur þegið meira, sá sem hefur meiri vitsmuni, meiri greind, meiri þekking, hann láti sjer aldrei úr minnilíða, að hann hefur þetta þegið, hann minnist þessa með einlægu þakklæti, með djúpri auðmýkt; því góðar gáfur, með tilsvarandi hreinleika hjartans, kurteisi, lítillæti og góðri breytni, skarta svo fagurlega. En yfirburðir sálarinnar sameinaðir sjerþótta, drembilæti, eða óhreinleika hjartans, það er náttúrlega andstyggð fyrir mönnum, en hvað þá í hans augum,

sem rannsakar hjörtun og nýrun og frá hverjum að þessi gjöf kemur, eins og öll önnur góð og fullkomin gjöf. Jeg vona þjer misskiljið mig nú ekki börn mín góð, þjer þurfið ekki, neitt yðar, að taka þetta, sem beina áminningu til yðar, fremur en þjer sjálf finnið eða viljið, en jeg óska að það gæti verið hugvekja fyrir margan mann, sem þykist af gáfunn sínum, sem misbrúkar gáfur sínar, til að meiða náungann, til að skaða hann, í stað þess, að mönnum eru gefnar gáfurnar, til þess að efla heill náungans með þeim eins og sjálfs sín í öllum hlutum, vera öðrum til ánægju, huggunar og blessunar, eptir megni, foreldrum og vandamönnum til sannarlegs sóma og ánægju. — Yðar gáfur, yðar þekking í kristindóminum er misjöfn, en þjer vitið þó öll nokkuð, hverju þjer eigið að trúa, og hvað þjer eigið að gjöra. Þjer þekkið öll hinn góða og líknarfulla föður, þann föður, sem þjer getið, fyrir hans elskulega sonar Jesú Krists meðalgöngu, ákallað í allri yðvarri neyð, allar yðar lífsstundir, þjer þekkið föðurinn, sem er líknsamur við syndarana, þegar þeir snúa sjer til hans með einlægri iðrun og trúnaðartrausti, þann föður, sem fyrir sonarins skuld veitir

hinum iðrandi syndanna fyrirgefning, og eilíft líf, þjer þekkið hann og hans son, sem yður hefur eptirdæmi eptirlátið, að þjer skylduð feta í hans fótspor, soninn, sem hefur frelsað yður frá eymd syndanna, og sem er yðar eilífur konungur, konungur í hinu andlega náðarríki, sem er stofnað yður til frelsis. Þjer vitið nokkuð hvað það kostar, að vera honum óhlýðinn, þjer vitið það, segi jeg, jeg bendi yður til þessa hins alvarlega, sem jeg, nú sagði, jeg vona þjer hugfestið þetta orð mitt ítarlega, þótt jeg tali ekki meira um það. En þjer vitið líka, hve gott og sælufullt það er, að vera hans trúr og hlýðinn þegn, því hans orð hljóða svo: Vertú trúr allt til dauðans, þá skal jeg gefa þjer lífsins kórónu. Hann býður yður: Vertú trúr, allt til dauðans. Vertú trúr, vertú mjer trúr allt til dauðans. þetta býður yður hinn mikli eilífi konungur náðarinnar og sannleikans, hann, sem er eilíf ímynd föðursins, og sjálfur guð, en í klæddist voru auma og veika holdi, og dó vor vegna, syndugra og óverðugra manna, svo vjer gætum lifað, svo vjer ekki tortýndumst, heldur hefðum eilíft líf. Heyrið þá hvað

þessi eilífi guðs sonur, þessi yðar blessaði og kærleiksfulli bróðir, segir til yðar, hann segir: Vertú trúr, vertú trú, vertú mjer trúr, vertu mjer trú, ekki aðeins um nokkurn tíma, ekki í dag og á morgun aðeins, nei — alla yðar æfi, því af því hann elskar yður, vill hann vera hjá yður og vill ekki að þjer nokkurntíma yfirgefið sig, þess vegna segir hann; Vertú trúr allt til dauðans. En heyrið líka meira, heyrið hvað eptir kemur, heyrið fyrirheitið, heyrið það, svo þjer með hreinum himneskum fögnuði, ljúf og glöð, uppfyllt föstum og einbeittum ásetningi í hinu góða vinnið honum heitorð, tryggð og hollustu. En fyrirheitið er, eins og þjer heyrðuð: Þá skal jeg gefa þjer lífsins kórónu. Heyrið þá, hverju yður er heitið, ef þjer viljið vera Kristi trú, ef þjer viljið vera staðföst í guðsótta, kappsöm í öllu góðu, hlýðin guðslögmáli, hlýðin þeim, sem guð hefur sett yfir yður, ef þjer verðið staðföst í trúrækni og skyldurækni allt til enda, þá öðlizt þjer eilíft líf, en, ef þjer verðið ótrú, æ! látið mig ekki þurfa að gjöra ráð fyrir því, ef þjer leiðizt á veg lastanna, ef freistingarnar leiða yður á syndarinnar vegi, ef heimurinn og holdið ræður yfir

andanum, hinum betra parti í yðar brjósti, hvert haldið þjer þá verði yðar hlutskipti? hver verður þá yðar huggun í dauðanum? hver yrðu þá yðar kjör í eilífðinni? Jeg vil ekki skelfa yðar ungu hjörtu, jeg hef svo góða von um yður, jeg ber svo gott traust til yðar allra, jeg veit ekki betur, en þjer sjeuð öll vel innrætt börn og hegðunargóð, jeg hef þá von til yðar, eða fremur til guðsnáðar í yðar brjóstum, að þjer útveljið hið góða hlutskiptið, að vera með Kristi, sem hans hlýðnir og trúir þegnar, að þjer öll með aldrinum megið reiknast í tölu vandaðra, ráðvandra, vænna, dyggðugra manna, en ekki syndum spilltra og skeytingarlausra. Jeg vona það, jeg óska þess, jeg bið guð þess, eins og allir yðar vandamenn, þjer sjálf og þessi söfnuður, að þjer aldrei villizt á spillingarinnar, á glötunarinnar veg, heldur að þjer verðið trú, verðið dyggðug, skyldurækin, guðhrædd, til enda yðvars hjervistar lífs, til dauðans, verðið trú til dauðans. Æ, einsetjið yður þá þetta nú, á þessari alvörustundu, einsetjið yður að vera trú í dyggð og guðhræðslu, trú í að hafna öllu illu, allri synd, trú og föst í hinum sanna kristilega sáluhjálplega lærdómi, alla yðar líf-

daga, allt til dauðans, einsetjið yður þetta og lofið þessu, sjá, þá eru launin mikil, við lífsins enda, við dauðans tilkomu, það er eilíft frelsi, eilífur friður, eilíf sæla, sem ekki hefur eyra heyrt og ekki hefur í nokkurs manns hug eða hjarta komið, hvað guð hefur fyrirbúið þeim, sem hann elska. Vertú trúr, vertú trú allt til dauðans, þá skalt þú öðlast lífsins kórónu. Er yður þá öllum hrein alvara að vilja vinna guði og Kristi þetta loforð, og staðfesta þetta loforð með skýlausri og einarðri játningu og dýrum eiði? Ef svo er, sem jeg held fyrir víst og þykist vita, þá geng jeg nú, í drottins Jesú Krists nafni og umboði, til sjerhvers af yðnr, og tek af yður þennan eið.

---

Þjer hafið þá staðfest yðar skírnarsáttmála, þjer hafið með frjálsum og fúsum vilja, að jeg held, endurnýjað yðar skírnarheit, þjer hafið unnið helgan eið, sem þjer aldrei megið rjúfa, þjer hafið unnið eið að því, að vera trúir þegnar í Krists náðarríki, þjer hafið hátíðlega og opinberlega heitið því, að vera trú allt til dauðans, svo þjer fáið öðlast lífsins kórónu; og þjer eruð með þessu loforði, þess-

um eiði, þessari játningu, tekin í tölu vor hinna eldri kristinna manna, staðfest í tölu vor, sem einusinni höfum unnið hið sama heit, er þjer nú hafið unnið. Þannig standið þjer nú meðal vor sem þroskaðir limir vors safnaðar, vorrar heilögu kirkju; nú, með því þjer hafið sjálf staðfest með hjarta og tungu skírnarinnar, það er endurfæðingarinnar heilaga sakramenti í yður og fyrir yður, þannig hafið þjer nú í kristilegri kirkju rjett og aðgang til hins annars heilaga sakramentis, helgunarinnar, kærleikans sakramentis, sem er drottins vors Jesú Krists kvöldmáltíð, hans heilaga náðarborð, sem á að veita yðar náðþyrstum og iðrandi sálum synda fyrirgefningu, huggun og samvizkufrið. Ydur er veittur, eptir þessa stund, aðgangur til að meðtaka fyrir drottins altari, fyrir framan hin heilögu grádna vebönd, að meðtaka yðar frelsara allraheilagasta líkama og blóð, og innan stundar munuð þjer nú þegar í dag, á þessum alvöru degi yðvars lífs, krjúpa í fyrsta sinn, að þessu náðarborði, við þessar grádur, sem þjer nú standið við. Þjer eruð nú þá í tölu hinna eldri kristinna manna fyrir staðfesting yðar skírnarsáttmála. Við þessa vissu, við þessa hugsun, veit jeg yðar fljóthrærðu, en

saklausu hjörtu uppfyllast einhverjum sælum, viðunanlegum, hreinum og saklausum fögnuði, eins og jeg minntist á við yður fyr í ræðu minni i dag. Og foreldrar yðar, vinir yðar og vandamenn, jeg og allur þessi drottins söfnuður vilja innilega taka þátt í gleði yðvarri, vilja fagna með yður helgum og einlægum fögnuði, er vjer eins og tökum á móti yður í vort fjelag. Verið þá velkomin inn í þetta vort fjelag, inn í fjelag vor hinna fullorðinna kristnu manna, verið velkomin, af hjarta velkomin, eilífur guð gefi yður það, að þjer verðið nú trú til dauðans, svo þjer fáið öðlazt lífsins kórónu, hann blessi yður og farsæli yður í þessu voru fjelagi, í sínum söfnuði, í hinni sýnilegu kirkju, í gegnum allar byltingar yðvars lífs, hvað sem á dagana drífur fyrir yður, hvert sem þjer farið, hvar sem þjer verðið eða dveljið, og leiði yður um síðir, þegar þjer eigið að yfirgefa þetta líf, inn til síns eilífa friðar, sinnar eilífu sælu, að þjer þannig fáið að öðlast lífsins kórónu.

En eins og þjer nú fagnið yfir því, að hafa stígið þetta stig, eins megið þjer ómögulega gleyma hinni áhyggjufullu alvöru, sem þessu á að vera samfara, jeg hef minnzt á það

í ræðu minni áður í dag, og jeg hef minnzt á það við yður á undanförnum tíma, er jeg hef verið að tala við yður til undirbúnings undir þessa heilögu athöfn, sem nú er þegar á enda, jeg hef minnt yður á það, en jeg minni yður samt á það enn, og í sannleika liggur mjer þetta á hjarta, og jeg veit það liggur líka foreldrum yðar og vandamönnum á hjarta. Alvarlegt, mikilvægt, skuldbindandi er yðar heit, og á að vera órjúfandi. Hugsið eptir því, það er ekki nóg að þjer nú aðeins sjeuð alvarleg, að í hjörtum yðar búi nú aðeins hreinn ásetningur og einlægur vilji, ef þjer látið seinna glaum heimsins, synduga menn, syndugan heim, spillinguna, freistingarnar eyða þessum góðu tilfinningum og áformum. Það á nú fyrir yður að liggja að fara út í heiminn, en þjer þekkið ekki heiminn; trúið þá þeim, sem eldri eru, trúið mjer: heimurinn, sollur hans og syndugir menn reyna á allar lundir að tæla og afvegaleiða, reyna til að freista yðar sakleysis og eyða því. Æ, börn mín, minnizt jafnan þessa dags, mjer er hrein alvara með það, minnizt heitsins, sem þjer unnuð drottni í dag, varðveitið þjer sakleysi æskunnar, ó, hvað það skartar allstaðar vel, ó, hvað það tekur fram

öllu veraldarinnar skrauti, æ, hvað sá er sæll, sem þetta á og geymir vandlega! Mína alvarlega áminningu tek jeg því enn upp fyrir yður: Verið nú trú, verið trú þessu unna heiti, verið trú í því að varðveita sakleysi yðar, verið trú í því að varðveita guðs boðorð og gjöra hans vilja í öllum hlutum, samkvæmt þekkingu yðvarri og hæfilegleikum, sjerhvert yðar í þeirri stöðu, sem hin hulda eilífa góða forsjón setur yður í, verið trú; verið þolinmóð, verið full trausts og trúar í mótlætinu, verið staðföst á vegi hins góða, skyldunnar, dyggðarinnar í öllu meðlæti, verið jafnan bænrækin, biðjið jafnan og þreytizt ekki; að þjer fáið orðið trú, biðjið guð, biðjið Krist, biðjið heilagann anda að styrkja yður í öllu yðar starfi, að styrkja yður í stríðinu við hold og heim, stríði freistinganna, því, trúið mjer, börn, það afl er sterkt, sem vill leiða mennina frá hinum góða, rjetta vegi, frá Kristi; vakið og biðjið, svo þjer fallið ekki í freistni, því andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt. Jeg nefni þetta aptur við yður: Biðjið jafnan og þreytizt ekki; jeg hef ekki tíma til að segja yður nú hina góðu ávexti bænarinnar, það sje yður nóg

í þessu tilliti, að vita, að þjer, ef þjer stundið bænrækni, munuð sjálf finna hina góðu ávexti bænarinnar; „bænin má aldrei bresta þig, búin er freisting ýmisleg“. Gleymið þjer ekki því sem þjer hafið lofað í dag, börn mín, gleymið ekki, að þjer hafið lofað því, að vera trú allt til dauðans, gleymið ekki opt að minnast þessa loforðs, gleymið ekki með heitri bæn og iðuglegri, að biðja guð að styrkja yðar veikleika í því að vera trú. En, börn mín, ef þjer farið villt, í einu eða öðru, fyr eða síðar, í minna eða meira, þá gleymið heldur aldrei að nálgast yðar góða föður aptur í auðmýkt, í bænum, fyrirgefningu, og hugsið enn jafnan til heitsins í dag, og einsetjið yður, reynið enn á ný og æfinlega að vera trú. Æ, verið þannig trú, allt til dauðans, svo þjer öðlizt lífsins kórónu. Gangið þjer nú hjeðan út í heiminn, í þessum fasta, hreina ásetningi, sem aldrei víki frá yður, alla yðar æfidaga, hvort sem þeir verða margir eða fáir, gangið burt með þeim fasta ásetningi, að vera trú til dauðans. Og gangið nú út i heiminn, með þeirri sælu von, sameinaðri yðar góða ásetningi, með þeirri von, að þjer öðlizt lífs-

ins kórónu; hún huggi yður í öllu aðkasti lífsins, í öllum þess umbreytingum, hún lýsi yður í hverskyns myrkri lífs yðvars, en einkum við enda þess, í myrkri dauðans. Gangið þá hjeðan, með þessa von eilífs lífs í hjörtum yðrum, sameinaða hinum einlæga ásetningi, að vera trú til dauðans, og grandvarleikanum í því, gangið út í heiminn og gangið í honum með þessari sælu von, að þjer, þegar þjer hafið verið trú allt til dauðans, fáið að öðlast lífsins kórónu. Amen. Í Jesú nafni. Amen.

---

## II.

## Skriptaræða,

(haustið 1857).

---

Elskulegu bræður og systur!

Yður finnst víst, yður, sem hingað eruð gengin, að yður vanti eitthvað, jeg þykist vita,

að þjer sjeuð að leita að einhverju; og þá spyr jeg yður, eins og vor drottinn og meistari forðum spurði: Að hverjum leitið þjer? Og jeg veit fyrir víst, að hjörtu yðar svari hinu sama og þeir svöruðu: Að Jesú af Nazaret. En þetta spursmál mitt hjer til yðar, og svar hjartna yðvarra, stendur í allt öðru sambandi við kringumstæðurnar núna, heldur en forðum, já, öldungis ólíku og gagnstæðu; því þeir voru forðum komnir til að höndla Jesúm, af hatri við hann, en þjer eruð vissulega komin til að höndla hann, af elsku. Og, ef þetta er, sem jeg skal þó ekki efa, að elskan til Krists hafi knúð yður hingað til að leita hans, ef yður gengur það til hjarta, að þjer hafið móðgað hann, og hans og vorn ástríka föður, þá eruð þjer, að leita að Jesú af Nazaret af hinni hreinu, sönnu hvöt. En — fyrst þjer leitið að Jesú af Nazaret, þá viljið þjer sannarlega finna hann. Og þegar þjer nú eins og heyrið hann spyrja: Að hverjum leitið þjer? og þjer aptur svarið: Að Jesú af Nazaret, þá segir hann aptur eins og forðum: Eg em hann. eg em hann, sem veiti yður sjálfan mig, minn líkama að eta og mitt blóð að drekka, sem

veiti yðar órósömu og harmþrungnu hjörtum syndafyrirgefningu, rósemi og frið. Jú, mín elskanleg! hjer leitið þjer að Jesú, og hjer getið þjer fundið hann, hjer getið þjer höndlað hann, og getið hjá honum öðlazt það, sem hjörtu yðar girnast, sem er friður og rósemd samvizkunnar, friður og sátt við guð. Svo veitið þá móttöku þessum sama Jesú af Nazaret, og allri þeirri sælu og fögnuði, sem hann flytur yður, leyfið honum inngöngu í yðar hjörtu; en — ef hann á að komast þangað, og hafa þar varanlegan bústað, þó gáið að þessu, að Kristur býr þar ekki, nema hjörtun sjeu hrein, vakið því og biðjið, því andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt, biðjið stöðugt og alvarlega með Davið: Drottinn, skapa í mjer hreint hjarta. En — þegar jeg nú segi þetta: hreinsið hjörtu yðar, svo Kristur fái þangað komizt og þar búið, þá skuluð þjer einnig vita, hvernig þetta er mögulegt. Mjer dettur þá í hug að sýna þetta með hinni gömlu líkingu, um það, hvernig smiðurinn hreinsar gullið í eldinum. Sjerhver maður á eins og að smíða hjarta sitt og endursmíða, hreinsa það og endurhreinsa, af öllum óhreinleik, sem aldrei lætur af að vilja leita þangað; en jeg segi yð-

þá að þessi sori verður ekki numinn burtu, nema með því, að brenna hjarta sitt í loga iðrunarinnar. Svo biðjið nú guðsanda að tendra þannig hjörtu yðar í dag, brenna af þeim allan óhreinleik, alla saurgun, brenna á burt hinar illu ástríður, sem freista og tæla, og þolið vel þó hjartanu svíði, því, því heitara sem eldur iðrunarinnar brennir hjartað, því hreinna kemur aptur hjartað út úr þessum eldi. Ef þjer þannig hreinsið yðar hjörtu, eins og jeg nú talaði um, þá er það sá gleðiboðskapur, sem vjer boðum yður, að hann vitjar yðar, hinn blessaði gesturinn og góði læknirinn, sem þjer nú leitið hjer að, það er Jesús af Nazaret. Takið þá vel á móti honum, elskuð guðs börn, og haldið honum hjá yður á þann hátt, að hann verði heimamaður hjartna yðvarra, því það vill hann vera, hann vill vitja yðar, og hann vill aldrei víkja frá yður, af því hann elskar yður, hann tekur þá á móti yður hjer, með sínum blíða náðarfaðmi, því þjer eruð þá vinir hans, og þurfið ekki, eins og hinn hatursfulli flokkur óvina hans forðum, að detta til jarðar. Já, takið vel á móti honum, segi jeg, breiðið svo blíðlega, með öllu því ástríki, alli þeirri ein-

lægni, sem þjer hafið til, faðm yðar móti honum, faðm yðar, sem er faðmur trúarinnar, og þó yður finnist, að þessi yðar faðmur, sje ekki boðlegur hinum blessaða heilaga hreina bróður, sem líka er ljómi föðursins dýrðar og ímynd hans veru, þá bjóðið honum samt í þennan faðm, því þar vill hann þó vera, því hann slítur ekki brákaðan reyr, nje útslökkur líttloganda hörkveik. Haldið honum þá þannig hjá yður fast í þessum faðmi trúarinnar og traustsins, þá er það sæll fagnaður fyrir yður, að heyra af hans blíðu vörum þessi sælu huggunar orð: Vertú hughraustur, sonur, vertu hughraust dottir, þjer eru þínar syndir fyrirgefnar. — Sjáið þá, enn eitt sinn þann, sem þjer leitið eptir, Jesúm af Nazaret, og gáið að því, að hann hinn saklausi og heilagi, hann er krossfestur; og hvað hefur krossfest hann? hvað hefur reiknað hann meðal spillvirkja, nema yðar syndir? Þær hafa krossfest vorn elskulegasta vin, þær hafa krossfest drottin dýrðarinnar; er þá ekki öll orsök til, að hata syndina, og sporna við henni, eða það sem postulinn kallar að deyja syndinni. En, Jesús af Nazaret, sem þjer finnið hjer,

og segir við yður: Eg em hann, hann er líka upprisinn, það er: hann hefur sigrað dauða og synd, og þannig þegar hann býr í yðrum hjörtum, þá eruð þjer og, sem verðið eitt með honum í trúnni, upprisnir með honum, upprisnir frá yðar andlega syndadauða, og lifið nú eins og frá dauðum upprisnir, lifið, eins og postulinn segir, rjettlætinu.

Þú eilífi heilagi og helgandi góði andi vertú í þinni nálægð kröptugur í hjörtum þessara bræðra og systra, sem vilja í dag meðtaka Jesúm í hinni heilögu kvöldmáltíð, vertu kröptugur í þeim til að hreinsa þau og helga, að þau í sannri kröptugri elsku meðtaki sinn elskaða frelsara Jesúm af Nazaret, og faðmi hann að sjer, faðmi hans náð að sjer í föstum og hreinum faðmi trúar og kærleika, að hann fái tekið sannarlegan og varanlegan bústað í þeirra sanniðrandi og sanntrúðum hjörtum, að þau fái dáið syndinni, en lifað rjettlætinu. Amen.

## III.

## Hjónavígsluræða,

(haldin í Múlakirkju 7. okt. 1857).

---

Í Jesú nafni.

Þegar jeg stend hjer í þeim sporum, sem jeg stend í dag, þá finn jeg það og viðurkenni, að jeg sakir æsku minnar, ókunnugleika og of lítillar reynslu, er svo fjarlægur að geta staðið í þeim, eins og vera ber. Jeg á, áður en jeg í drottins nafni og umboði innleiði þessar ungu persónur, frammi fyrir drottins söfnuði, inn í hina heilögu hjónabandsstjett, að tala orð, sem ættu að geta átt við tækifærið. Mjer finnst jeg að sönnu vita tilgang þeirra orða, er jeg á að tala, það er, að sýna þessum ungu persónum, hvað sú athöfn táknar, sem hjer á að fara fram, hvað það sje, að ganga í hjónaband, með hvaða tilfinningum og áformum, þeim beri að ganga út í það, að vísa á einhverja leiðarstjörnu, eptir hverri þau geti gengið óhult hinn rjetta og sanna

veg í einum og sama anda, í gegnum lífið, gegnum dauðann, inn til lífsins. Þetta hefur mjer fundizt að ætti að vera efni og inntak minna fátæku hugleiðinga.

Sjá mig nú hjer guð minn, þinn auman, veikan, sljófskygnan, syndugan þjón, legðú mjer orð í munn, stjórna þú tungu minni, blessa mig og þann starfa, sem þú hefur falið mjer á hendur. Helga þau ungu elskulegu hjörtu, sem fyrir elskunnar heita innilega band nú vilja í þínu nafni, fyrir þínu alskygna augliti, fyrir þínu altari eins og verða að einu hjarta. Gefðu að þinn heilagur andi, hin blessaða vörnin og lækningin, vökvi og styrki ætíð þeirra elskandi hjörtu, allan þann tíma, sem þú lætur þau þróast hjer, á akri stundlegleikans og ófullkomlegleikans, láttu þau ekki vanta þetta meðalið, þessa heilögu frjófgunina, þá mun hið næma, fína, tælandi höggormaeitur, sem svo opt grátlega saurgar hin ungu uppvaxandi og þroskuðu blóm á þínum akri, ekki ná að skaða þessi elskandi hjörtun. Fyrirlíttu ekki vora auðmjúku og einlæga bæn, miskunsami guð og Faðir vor þú sem ert á himnum &.

Elskulegu brúðhjón!

Þau orð, sem jeg nú í einfeldni og einlægni anda míns vildi reyna að tala fyrir ykkur, vitið þið ef til vill sum og hafið hugsað ykkur að geyma og fylgja á þessum ykkar nýja lífsvegi, eina og líka þið munuð hugsa ykkur margt ekki lítið áríðandi, hvers jeg hjer ekki get, annaðhvort vegna gleymsku minnar, og ófullkomlegleika, eða vegna þess jeg álít mig ekki þurfa þess.

Það sem mjer þá fannst að guðs andi og þetta helga tækifæri fyrst benda mjer á að tala um er það: Hvað þessi athöfn táknar, hvað það sje, að ganga í Hjónaband. Þeski helga athöfn er þá hátíðlegt merki, innsigli og staðfesting uppá það, að þið lifið nú hjeðan af, meðan dauðinn, eða aðrar óumflýjanlegar kringumstæður frá forsjóninni banni ekki samvist ykkar, eins og einn maður. Þetta er nú það, sem þið hátíðlega undirgangizt og lofið frammi fyrir ásjónu guðs og hans safnaðar, og upp á þetta sverjið þið dýran eið og heitið og verðið svo rjett ektahjón, bæði fyrir guði og mönnum. En hvað merkið það þá enn fremur? Hjónabandið er hið nánasta, innilegasta og fastasta kærleiks-

band eða sameining, sem hugsazt getur, á þessari jörðu, á milli tveggja elskandi persóna karls og konu; og það er svo náttúrlegt, einfalt og skiljanlegt, að svo er, nefnilega af því, að kærleikurinn, þetta hið guðlega, máttuga afl, sem í eðli sínu er sterkara en sjálfur dauðinn, hefur stofnað það og myndað, og sjálfur guð með sínu orði sjerstaklega tilskipað og helgað. Heitt getur faðir og móðir elskað barn sitt, barn foreldri, vinur vin, en þessi elska er þó enn þá heitari og dýpri og innilegri, því hjónin eru einn maður, þ. e. ein sál og einn líkami, og því segir ritningin: Þar fyrir skal maðurinn yfirgefa föður og móður, og vera hjá eiginkonu sinni og þau tvö skulu vera eitt hold. Og postulinn Páll líkir sambandinu milli mannsins og konunnar, við hið innilega, hreina, heilaga, himneska samband, sem er milli Krists og hans safnaðar. Þegar þannig karl og kona tengjast til einingar, þá er skiljanlegt, að þessi eining, hjónin, verði við það fullkomnari, og þar fyrir æðra sett, heldur en hið einstaka áður var, þannig er það, segi jeg, skiljanlegt og sjálfsagt, að hjónabandið lypti mönnunum eins og hærra upp í mannfjelaginu, eins og líka hjónin finna það

hjá sjer innvortis, að þau bæta hvort annars líkamlegu og andlegu þörf, uppfylla hvort annað, bæta og laga og fullkomna, gleðja, styrkja og hugga, en allt með hógværð og í kærleika. Þannig lýsi jeg hjónabandinu, eins og jeg held það sje, eptir sinni sönnu hugmynd og þýðingu. En látið það aldrei villa sjónir ykkar, kæru brúðhjón, þó þið ef til vill sjáið, ekki fá hjón, ekki hafa, eptir breytni sinni hvort við annað að dæma, hina sönnu hugmynd sem hjónabandið, því hin illu dæmin, hvað mörg sem þau kunna að vera og megn, eru ekki til þess að láta þau freista sín, heldur til þess menn varizt þau.

En — nú vil jeg þá enn fremur minnast eitthvað á það, sem jeg ætlaði mjer: Með hvaða tilfinnngum og áformum mönnum beri að ganga út í þessa stjett. En í þessu tilliti ætla jeg ekki að fara að gefa ykkur neinar hyggindareglur viðvíkjandi ýmsum áhyggjum lífsins, fyrirhyggju atorku, því jeg er viss um þið vitið þetta allt eins vel og jeg. En jeg vildi að þið stefnduð huganum í aðra átt, og gjörðuð það sem optast, hvort í sínu lagi, en þó einkum bæði samtaka. Ástfólgnu brúðhjón

Rennið nú augunum til baka yfir genginn lífsferil. Þar munuð þið nú vissulega sjá, að ykkur hefur mætt margt mæðusamt, hjörtu ykkar hafa vissulega þjázt af ótta, sem einhver von, óljós eða ljós og margvíslega ásigkomin, hefur þó nokkuð gjört ljettari. Jeg segi ekki að þetta hafi verið á sama hátt fyrir ykkur báðum, en jeg tala hjer svo almennt, að þessi orð mín geta vissulega átt við ykkur bæði, svo þið getið, hvort um sig, heimfært þau til ykkar fyrri kjara og hjartans tilfinninga, hvort eptir sínu sjerstaka ásigkomulagt og lífskringumstæðum. En sjáið, nú er þetta allt liðið, og nú eruð þið bæði saman að innganga nýja æðri lífsstöðu, sem flytur ykkur mikla ánægju og hina mestu farsæld, sem frambýðst hjer í heimi, sjáið nú, með mikilli athygli, hve dásamlega að drottins náð hefur leitt ykkur hingað saman, til þess að meðtaka þessa náðargjöf; brennandi þakklætis tilfinning á því nú,og æfinlega hjeðan af, að stíga upp úr hjörtum ykkar, upp til föður ljósanna, hvaðan að kemur öll góð, og öll fullkomin gjöf, og gleymið því aldrei á gleðinnar og fagnaðarins tímum, að þakka drottni, og óviðurkvæmilegt væri, að þið ekki gjörðuð það nú heitt og auð-

mjúkt, á þessum áfangastað ykkar lífs. Já, í guðs nafni geymið þessi orð vandlega í hjörtum ykkar allar ykkar ókomnar æfistundir: Gleymið aldrei að þakka drottni; og þó þið kynnuð að sjá marga í kringum ykkur meðtaka gæði og náðargáfur af drottni, rjett eins og þeir hefðu það ekki þegið, þá látið þetta þeirra vanþakklæti við hinn algóða föður, einmitt minna ykkur á þakklætið við hann. — Jeg býst við að í sálum ykkar búi nú gleði og ánægja, eins og eðlilegt er og á að vera, því hvers vegna skyldi nokkur nauðugur stúrinn eða hryggur, ganga inn í hjónaband, nei — þá væri í sannleika betra fyrir báða parta að ganga ekki i það. Jeg segi, eins og jeg var byrjaður á: Gleði og ánægja býr nú í hjörtum ykkar, eins og rjett er, hjá ykkur er fögnuður vonarinnar, vonarinnar, sem málar svo fagurlega fyrir sjónum ykkar hinn ókomna tímann. Og látið þá vonina gjöra það, látið hana skemmta ykkur og gleðja með þessu sínu fagra málverki; en — eitt er samt í þessu tilliti mjög nauðsynlegt, biðjið guð sjálfan að senda ykkur ljós síns anda og síns orðs, til að upplýsa þessar myndir. Og svo jeg útþýði betur orð mín, þá meina jeg með þeim,

að gleði eða fögnuður vonar ykkar sje helgaður af hinu æðra, himneska, heilaga, þetta getið þið að vísu ekki sýnt æfinlega í hversdagslegu lífi, og það ríður ekki heldur á því, og mundi ekki ætíð gjöra gagn í þessum heimi, sem heldur mikið er guði frá hverfur, og sem því ekki mundi bera þetta eða skilja. En gleymið samt ekki að geyma þetta innra hjá ykkur, að láta gleði ykkar og von, eins og allar ykkar tilfinningar vera hreinsaðar og upplýstar af guðs orði og anda, hafa rót sína í kristilegri trú, og jeg álít það hjer við eiga kröptuglega að hvetja ykkur til að vera staðföst í trúnni. Jeg bið ykkur því: Gleymið aldrei þessu boðorði. Gleymið ekki að þið eruð í heimi fullum freistinga og mótlætis, sem opt er ó fyrir sjáanlegt, og sem opt getur hitt þann, sem menn máske ekki vænta, en látið þetta ekki hræða ykkur, heldur verið jafnan viðbúin, staðföst í trúnni, og þá getið þið líka æfinlega verið glöð í voninni. Já, umfram allt stundið trúrækni og bænrækni, min elskanleg, ekki síður á þeim dögum, sem eru kallaðir góðir, því, því hægra eigið þið með að lypta huganum til guðs á dögum mótlætinganna, ef þeir kynnu að vitja ykkar, sem

getur, eins og þið vitið hitt oss alla. Hugleiðið og hugsið ykkur hvílík sæla það þá gæti verið að geta sagt með Davíð: Þegar jeg hef þig aðeins þá hirði jeg hvorki um himin nje jörð, og þó líf mitt og sál vanmegnist, þá ert þú þó, guð, alla tíma mitt hjartans traust og hlutskipti. Og þetta trúar og bænrækniss hugarfar, aukið upplýst og styrkt af guðs orði og anda, er sú leiðarstjarna, sem jeg ætlaði að vísa ykkur á, til þess að hún gæti lýst ykkur á þeirri leið, sem þið eigið að ganga, sú leiðarstjarna, sem er öldungis viss, að geta leitt ykkur, svo vel og óhult í gegnum þessa heims lífsleið sem mjög opt er svo dimmt á, leitt ykkur, eins og jeg áður kvað að orði, gegnum lífið, gegnum dauðann inn til lífsins.

Þessar mínar óskir og upphvatningar og bænir til guðs fyrir ykkur skulu þá fylgja ykkur hjeðan fram á þessa ykkar lífsleið, og jeg óska, að þessi leiðarstjarna trúarinnar og bænarinnar fylgi ykkur svo lengi. sem ykkar lífsleið endist, því svo lengi þurfið þið hennar með. Verið staðföst í trúnni, glöð í voninni, heit í bæninni og þakklætinu. Minnizt þess sem

frelsarinn sagði: Þar sem tveir eða þrír eru samankomnir í mínu nafni, þar vil jeg vera mitt á meðal. Og hverjir tveir eða þrír geta hugsazt innilegar og heitar í sameiningu að útausa sínu hjarta fyrir drottni heldur en hjónin, þar sem þvílík sæla er, að allar góðar hjartans tilfinningar í brjósti hjónanna sjeu hinar sömu. Þessvegna ráðlegg jeg ykkur: Biðjið bæði saman, í einum anda, já með einum munni, biðjið nú, að það band elskunnar, sem nú í dag verður tengt í guðsnafni, megi verða ykkur báðum og ykkar til sannrar velferðar og sælu um tíma og eilífð.

Og þú, eilífi kærleikans guð, sem hefur gróðursett þinn eigin kærleika í þessum tveimur ungu hjörtum, gef að þessi þeirra kærleikur, hvors til annars, aldrei dofni, og gef þeim að hann sje fölskvalaust grundvallaður í þínum eilífa kærleika, og verði aldrei viðskila við hann, gef þeim, að hvorki dauði nje líf, hvorki englar nje höfðingjadæmi nje veldi, hvorki hið nálæga nje hið ókomna, hvorki hæð nje dýpt, nje nokkur önnur skepna geti skilið þau frá þínum kærleika, sem er í Kristi Jesú drottni vorum. Bænheyrðú oss í hans nafni

öll þín börn, sem hjer erum og biðjum með þeim og fyrir þeim. Amen.

---

## IV.

# Hjónavígsluræða,

(haldin í Neskirkju 17. okt. 1858).

---

Í Jesú nafni.

Verið velkomin hingað, hjartkæru brúðhjón! — guði sje lof! nú er sá dagur kominn, á hverjum þjer sjálf, með fúsu geði, ætlið að vinna hvort öðru tryggðaheitið, gjöra ykkar á milli ástarskilmálann eptir guðs eigin orði og vilja, með fúsu geði og góðu hugarþeli ættingja ykkar og vina og eptir ósk og vilja allra, sem ykkur vilja vel, mín og þessa safnaðar, sem hjer er nærstaddur. Þetta er því fyrir ykkur sannur gleðidagur, ó, að hann væri líka, eins og jeg vona, sannur blessunardagur. Fagnaðardagur er það sannarlega í eðli sínu, á hverjum menn með fúsu og frjálsu geði inn-

ganga hjónaband, þegar tvö elskandi hjörtu, sem af hinni góðu og kærleiksfullu forsjón eru ætluð hvort handa öðru, þegar þau heita hvort öðru æfilangri tryggð, styrk og eptirlæti. Fagnaðarrík von breiðir þá blóm sín á hinn komanda tíma, á þann veg, sem hjónin eiga að ganga saman í ást, samlyndi og kærleiksfullri sambúð. Jeg segi það sje náttúrlegt og rjett, að fögnuður og von sjeu þá hinnar yfirgnæfandi tilfinningar, en eins og þessar tilfinningar eru þá mest ráðandi, er menn ganga út í hjónaband, af því hjónabandinu fylgir hin æðsta farsæld, sem guð veitir manni í þessu lífi, þannig má það segja, að vandi fylgir velsemd hverri og það má segja um hjónabandið. Þar eru margar skyldur, sem eru sjerstakar fyrir það, fyrir manninn sjer, og konuna sjer, og svo bæði sameiginlega. Þar eru margar skyldur, sem mörgum þykja þungar. — Kæru brúðhjón! heyrið þessi orð mín: Horfið fagnandi og vonglöð fram á ókominn samverutíma, þetta er rjett, tilhlýðilegt og kristilegt. En — gleymið ekki hinu alvarlega, hinu skuldbindandi, sem hjer fylgir með, að þið eigið að láta hjónabandið vera kristilegt, þið eigið að efla hvors annars tímanlega og eilífa farsæld.

Guð almáttugur og algóður gefi ykkur það, af sinni náð, að þið vonglöð og fagnandi getið byrjað blessað, farsælt og kristilegt hjónaband og lifað í því saman vel og lengi, og eins og guðsbörnum hæfir. Guð ræður að vísu samverudögum ykkar, hvort þeir verða margir eða fáir og hvað margir verða blíðir og hvað margir stríðir, og vitið að öll hans ráð eru einber miskun og trúfesti, treystið honum í öllu lífi ykkar, en þið ráðið samt svo miklu sjálf, þið eruð sjálf að svo miklu leyti ykkar gæfusmiðir, þið leggið með guðsnáð grundvöllinn til farsældar ykkar í hjónabands sambúðinni, og þið verðið allt af að byggja ofan á þennan grundvöll farsældarinnar, og — byggið ofan á hann, þangað til þið hafið fullbyggt til hinnar eilífu farsældar. En, elskulegu brúðhjón, enginn áreiðanlegur grundvöllur til þess að byggja á farsæld sína er til, nema sannleikur guðs og Krists orða, enginn getur annan grundvöll lagt, en þann sem lagður er, sem er Jesú Kristur (1 Cor. 3, 11). Hvert það hjónaband, sem ekki er kristilegt, það verður aldrei sannfarsælt. Látið því hjónaband ykkar, vera sannkristilegt, samkvæmt guðsorði, þetta er mín

skylda að brýna fyrir ykkur á þessum giptingardegi ykkar, á þessari helgu stundu, eins og ykkar skylda er, að hugfesta mínar áminningar og geyma á öllum ykkar ókomnum samverutíma. Og í þessum tilgangi vil jeg nú þegar í þessari ræðu minni lesa upp fyrir ykkur eitt hið merkasta úr heilagri ritningu um hjónabandið, um eðli þess og skyldur, og það er í 5. kap., í brjefi Páls postula til Efesusmanna.

Þessi orð munu nú að vísu verða lesin upp fyrir ykkur seinna í dag, þegar þið verðið orðin saman vígð, verðið orðin hjón. en jeg vil samt lesa þau nú upp líka, og taka þau til íhugunar, ykkur til skilningsauka, áminningar, og til að láta ekki mitt eptirliggja, að stuðla til, að hjónaband ykkar geti orðið sannkristilegt. En orðinu er í

Efes. 5, 22—28.

Konurnar sjeu sínum mönnum undirgefnar eins og drottni, því maðurinn er höfuð konunnar, eins og Kristur er höfuð safnaðarins; hann er og frelsari síns líkama. En eins og söfnuðurinn er undirgefinn Kristi, þannig sjeu og konurnar sínum mönnum í öllu. — Þjer menn, elskið yðar eiginkonur, eins og Kristur elskaði söfn-

uðinn, og gaf sig sjálfan út fyrir hann, svo að helgaði hann og hreinsaði hann í vatnslauginni með orðinu, uppá það hann útvegaði sjálfum sjer dýrðlegan söfnuð, á hverjum enginn blettur eða hrukka væri, eða nokkuð þvílíkt, heldur væri heilagur og lýtalaus. Þannig eiga mennirnir að elska sínar eiginkonur, sem sína eiginn líkami. Sá sem elskar sína eiginkonu, elskar sjálfan sig.

Þetta er nú textinn. Ef jeg færi, eða ef jeg reyndi það, að útskýra hann allan, þá yrði jeg ef til vill of lang-orður; en jeg tók hann samt svona langan, af því hann allur getur hlýtt upp á hjónabandið, og er svo fagur, og af því jeg hugsaði, að þið ef til vill sjálf, kæru brúðhjón, kynnuð að uppörfast til að athuga hann betur seinna, svo þið við eigin umhugsun gætuð ykkur til gagns skilið hinn fagra og innihaldssríka texta. En jeg skal reyna að íhuga höfuðinntak hans, sem miðar til að skýra hjónabandið, eðli þess og skyldur.

Í áður lesnum orðum postulans er svo fagurlega, og ómótmælanlega fram sett sú hugmynd eða það eðli hjónabandsins, að mað-

urinn og konan eru eins og einn maður, þau mega að jeg held, í sannleika heita einn maðnr. Þetta sýna einkum ljoslega orðin, sem í textanum standa: Maðurinn er konunnar höfuð, og hver sem elskar sína eiginkonu, elskar sjálfan sig. Maðurinn er konunnar höfuð: Höfuð og líkami í sameiningu gjörir hvorttveggja lifandi mann, þar sem sífelld lífseining, andleg og líkamleg á stað milli hvorstveggja, þar sem hvorttveggja þarf annars við til lífsins, eins er líka maður og kona einn maður að sínu leyti, því þau miðla sífelldlega hvort öðru því lífi, sem hvort hefur fyrir sig, og þiggja á víxl líf hvort af öðru. Þau lifa þannig, líkt og einstakur maður með höfði og líkama, þá lifa þau í lifseining út af fyrir sig, eins og einstök persóna, sem hefur eitt líf og einn anda. Hjónin má þannig kalla einn mann, þau verða eins og ein sál og einn líkami, og það samkvæmt guðs orði, þvi, þau tvö skulu vera eitt hold, segir ritningin (1 Mos. 2, 24), maður og kona eru eitt hold. Sjálfselskan er öllum innrætt, eins og postulinn segir í sama kapítula, sem texti vor er tekinn úr, þar sem hann segir: Enginn hefur nokk-

urntíma sitt eigið hold hatað, heldur fæðir hann það og endurnærir. það er hin háleita kristilega og djúpa skoðun á hjónaástinni, að kalla hana nokkurskonar sjálfselsku, þar sem postulinn segir: hver sem elskar eiginkonu sína, elskar sjálfan sig. Þegar maðurinn elskar konu sína, þegar hann hefur sannkristilega sjálfsafneitun hennar vegna, þegar hann þannig elskar hana, þá er ekki eins og hann elski neitt fyrir utan sig, heldur elskar hann eins og sitt eigið líf, konu sína, sem er hans eigið líf, hans eigið hjarta, þetta er merking orða postulans: Hver sem elskar eiginkonu sína, hann elskar sjálfan sig. Sama má og náttúrlega segja um konuna, þegar hún elskar mann sinn, þá er svo fjarlægt því, að konan elski nokkuð annarlegt, hún elskar sitt eigið líf, hún elskar mann sinn, sem í sameining með hennar lífi gjörir eitt líf, hún elskar mann sinn, hún elskar sitt líf, hún elskar þannig sjálfa sig, því maðurinn er hennar annað jeg; eins og konan er hið annað jeg mannsins, sem hann elskar, hún er ekki aðeins hans eigin sál og líkami, heldur er hún með honum ein sál og einn líkami; hjónin eru þannig, eins

og jeg vildi sýna af postulans orðum, eins og einn maður, þau eru í rauninni einn maður. Hjónabandið, sem hin hreina himneska ást hefur myndað í mannlífinu, og sem guðs orð hefur ekki aðeins leyft og liðið, heldur og boðið, það hefur nú þetta að þýða, að sameina tvær elskandi persónur, sitt af hvoru kyni, og gjöra eins og að einni persónu. Þetta er eðli og ásigkomulag hjónabandsins.

En af því tilgangur hjónabandsins er göfgun, fullkomnun og farsæld þeirra persóna, sem í hjónabandið ganga, og um leið heill og efling fjelagsins, af hverju hjónin eru einn liður, þá hafa hjónin svo margar skyldur, hvort við annað, jafnframt skyldunum við fjelagið, sem yrði oflangt og ef til vill ekki eins nauðsynlegt að telja hjer. Í áður lesnum texta eru teknar fram almennt og yfirgripsmikið skyldur hjónanna innbyrðis. Í fyrri partinum eru teknar fram skyldur konunnar við manninn og í seinni hlutanum skyldur mannsins við konuna. En um leið eða áður en jeg tala um skyldur hjónanna, þá ætla jeg betur að skoða í hvaða sambandi, eða með hvaða eiginlegum andleglegum mismun að hjónin gjöra til samans einn mann eða eina persónu, og í þeirri lýsingu

ætla jeg enn að hafa til fyrirmyndar hinn einstaka mann, Sál mannsins má, eptir því sem hún birtist ýmislega í lífinu og í djúpi sjálfrar sín, skipta í tvenn með fullum rjetti, henni má skipta í hug og hjarta. Hugurinn ályktar ræður og býður, það sem samkvæmt er góðri tilfinningu hjartans, hugsun manns blíðkast og mýkist af viðkvæmni og blíðu, sem í hjartanu býr, en hugsunin eða hugurinn hefur vald yfir tilfinningum hjartans, svo þær verði settar, skynsamar, fastar. Þannig lifir og hreifist hið innra sálarlíf hins einstaka manns, eða þannig á það að vera. Og, svona eru hjónin, eða svona eiga hjónin að vera að sína leyti. Maðurinn á í hjónabandssálinni, í eðli sínu að vera hugurinn eða hugsunin, sem ræður hjartanu og blíðkast af því, konan á að vera hjartað, sem lífgar, göfgar, glæðir og fegrar hugsunina.

Þannig eigið þjer, kæra brúðir, sem kona yðar ektamanns, að vera hjarta ykkar beggja, þjer eigið að vera manni yðar allt, lifa fyrir hann, láta yðar geðslag og blíðu hjartans samlagast hans skynsamlegri hugsun í öllum ykkar ráðagjörðum og störfum, þetta býður postulinn yður fullkomlega, þar sem hann segir í

texta vorum: Konurnar sjeu sínum mönnum undirgefnar, eins og drottni. Engin kona þarf að kalla þetta boð hart, ef hún skilur það rjett. Hver sem skildi þetta svo, eins og konurnar ættu í einhverskonar hræðslu eða þrældómsástandi að vera undir menn sína gefnar, hann misskildi orð postulans mikillega, annaðhvort af heimsku eða einhverri illkynjaðri eigingirni, hann rangfærði hina sannkristilegu meiningu postulans. Eins og það af náttúrunni sjálfri sjezt, af starfsemi beggja kynja og hverju öðru, að konur sjeu fremur undirgefnar hinu öðru kyni, eins er það og samkvæmt postulans meiningu, samkvæmt guðs orði; hann skal þinn herra vera, segir guðs orð (1 Mos. 3, 16). Þetta eiga konurnar að sjá og skilja, þær mega ekki með ráðríki og ofsa setja sig upp yfir menn sína. Þær eiga raunar sjálfsagt, sem annar partur hjónabandspersónunnar að ráðleggja mönnum sínum heilt, vera þeirra ráðaneyti í öllum hlutum, sem þeim kemur báðum við, í öllum þeim hlutum, sem viðkemur þeirra búskap og heimili, og eiga þannig heimting á að vita um allar ráðgjörðir manna sinna, því konunnar skylda er, að efla, styrkja og fegra allar mannsins

góðu ráðagjörðir, en af alefli, með skynsamlegum fortölum, með hógværri en tilhlýðilega alvarlegri blíðu kvennlegs hjarta, að hindra hans hinar óskynsömu og illu ráðagjörðir. Hve frjáls, hve ánægjuríkur, hve elskuverður starfi getur þetta ekki verið fyrir konuna, þegar allt þetta gengur með tilhliðrunarsemi og hógværð á báðar hliðar! hve mikla hógværð, blíðu, stillingu, þolinmæði og festu eykur ekki góð og skynsöm kona sannsýnum ektamaka sínum! til hve mikillar blessunar, heilla og hagnaðar, getur það ekki opt orðið þeirra búskap og heimili! Starfi yðar, kæra brúðir, sem konu. er er ekki starfi styrkleikans og bústjórnarinnar utan húss, nema þjer hafið sjálfsagt ráðgefandi vald í þessu öllu, og maður yðar á ekki að leyna yður neins í sinni umsjón og erfiði, en starfi yðar er starfi kyrðarinnar, blíðunnar, umsjónarinnar innan húss, stundið að vera góð húsmóðir með þrifnaði, reglu og ráðdeild, stundið að vera sómi manns yðar, eins og þjer í sannleika gefið mjer góða von um, verið trúr og styrkur ráðgjafi manns yðar, en verið hans hjarta, fremur en hans höfuð, elskið hann ekki aðeins með heitri ást og óbilandi trúfesti, heldur og virðið hann, eins og yðar ektamann

og eins og húsbónda, og aðalstjórnara ykkar húss, eins og nokkurskonar höfuð yðar, þar sem þjer eruð í lífseining við, eins og líkami, virðið hann þannig og elskið, sem á að vera yðar vernd og stytta, á að vera, eins og postulinn segir, frelsari síns líkama, höfuðið á að vera stjórnari, verndari frelsari síns líkama. Þannig með því hugarfari, dyggðum og greind, sem jeg hjer að framan reyndi að benda yður á, eptir postulans boði, þá verið manni yðar undirgefin eins og drottni, því maðurinn er konunnar höfuð, eins og Kristur er safnaðarins höfuð. Það er að skilja: Lifið í óþreytandi og óeigingjörnu hreinu ástarsambandi við mann yðar, sem yðar verndara og höfuð, er þjer eigið að elska framar öllum mönnum, hverjum þjer eruð mest skuldbundin, og hafið helgastar og viðkvæmastar skyldur við, eins og að sínu leyti, að allir kristnir menn, allur sannkristinn söfnuður lifir í andlegu sambandi elskunnar við sinn frelsara, sem er höfuð sinnar kirkju, þar sem hann er andlegur brúðgumi, en kirkjan hans brúðir. Eins og Krists vinir, Krists söfnuður, Krists kirkja elskar Krist, tekur hans kross og fylgir honum eptir, þannig eiga og konurnar, tíðum gegnum

sjálfsafneitun, mæðu og stríð að lifa fyrir sína ektamenn, þannig eiga þær að elska sína ektamenn. Verið þannig, hjartkæra brúðir, allan þann tíma, sem guðs forsjón leyfir ykkur að vera saman í hjónabandi, verið þannig, undirgefin manni yðar eins og drottni.

En — jeg á nú líka tal við yður, sjer á parti, kæri brúðgumi. Jeg hef hjer næst að framan helzt átt tal við hana, sem þjer nú viljið bindast æfilöngum ástarskilmála, og það gjörði jeg eptir textans röð og tilvísun. Nú ætla jeg að eiga tal við yður um hjónabands skyldur yðar.

Þjer eigið að vera hinn annar partur hjónabandspersónunnar, þjer eigið að vera ektamaðurinn, þjer eigið, þar sem kona yðar á að vera hjartað, þá eigið þjer helzt að vera hugsunin eða hugurinn. Þau eiginlegu umráð eru yðar hlutskipti, aðal umsjón búsins, heimilis ykkar og húss. Þjer eigið að ráða skynsamlega, og framkvæma það, sem hyggilegt er og gott, ekki reykult, heldur með kristilegu þreki og festu, með iðjusamri þolinmæði. Reynið og prófið alla hluti, en haldið hinu góða (1. Thess. 5, 21). Það er: Eptir að hafa eptir yðar gáfum og greynd, hugsað um

það og það í yðar verkahring og ályktað hið skynsamlegasta og bezta, með því vakandi í huga að hafa óskerta samvizku fyrir guði og mönnum (Postgb. 24, 16), þá framkvæmið það ótrauður með stöðugleik og staðfestu. Konan er yðar hjarta. Látið þann styrkleik, þau ráð, sem yður heyra til, sem karlmanni eða ektamanni, blíðkast og fegrast af hennar blíðu og fegurðar tilfinningu, svo styrkleiki og stjórnsemi sú, sem þjer eigið að hafa, verði skreytt fegurð og blíðu; verið ekki einn í ráðum, ráðgist við konu yðar í öllum hlutum, eins og ykkar skylda er beggja, að vera einlæg hvort við annað, og aldrei að fara sitt hvora leið, aldrei að fara hvort í kringum annað. Í öllu þessu, kæri brúðgumi, sýnið þjer, að þjer elskið konu yðar, og í fleiru, sem jeg enn mun máske telja. Því eins og það er víst, að kærleikurinn er uppfylling lögmálsins (Róm. 13, 10), eins innifelast náttúrlega ekki síður allar skyldur mannsins við konuna í því eina boðorði postulans í textanum, að menn elski konur sínar. Þjer menn, elskið yðar eiginkonur, eins og Kristur elskaði söfnuðinn. Hver sem uppfyllir þetta boð postulans, hann uppfyllir allar skyldur hjóna-

bandsins. Elskið nú konu yðar, og virðið hana sem yðar jafninga, meðhjálp og ráðaneyti, berið í hjarta yðar það saklaust og óeigingjarnt hugarþel að vilja lifa hjeðan af henni til ánægju og sóma, henni til tímanlegrar og eilífrar farsældar. Verið þjer vakinn og sofinn í þessu, vílið ekki fyrir yður, þó þjer mættuð synja yður hverrar helzt rósemi, sem er, teljið ekki eptir yður neina erfiðleika, hennar farsæld og kristilegri rósemd til eflingar, einungis að allur starfi og umhugsun henni viðvíkjandi sje samkvæm guðs orði og góðri meðvitund. Kappkostið að útrýma allri eigingirni frá ást yðar á henni. Hafið Krist yður til fyrirmyndar, eptir postulans boði, er hann býður: Elskið yðar eiginkonu eins og Kristur elskaði söfnuðinn, og gaf sig sjálfan út fyrir hann, svo að hann helgaði hann og hreinsaði hann í vatnslauginni með orðinu, svo hann útvegaði sjálfum sjer dýrðlegan söfnuð. Reynið af öllu megni, að skilja þessi orð, og líkjast í ást yðar á konunni, elsku Krists til mannanna, elsku Krists til síns safnaðar. Verið ætíð reiðubúinn, eins og Kristur leið fyrir mennina, þá verið ætíð fús og reiðubúinn, að þola

hvað eina mótdrægt og illt fyrir konuna, umberið hana með þolinmæði og stillingu, eins og Kristur auðsýndi þolinmæði, leiðið hana, eptir þeirri náð, sem guð gefur yður, til hins góða, sem vera mætti þjer kynnuð stundum að sjá betur en hún, leiðið hana til þess með langlundargeði og stillingu. Þannig eigið þjer líka að ávinna yður blíðu hennar, viðkvæmni, ástúð og aðhlynningu, þannig eigið þjer að efla hennar farsæld og fullkomnun, allt eptir fyrirmynd Krists, sem elskaði sinn söfnuð, helgaði og hreinsaði, svo hann útvegaði hann sjálfum sjer dýrðlegan. Þannig eigið þjer jafnan að stuðla til þess með elsku yðar, að þjer hafið aðgang til hennar hreinu ástar og alúðar, sem hún er yður skuldbundin um. Látið yður í öllum greinum ekki vera síður umhugað um hennar tímanlegu og andlegu, já, eilífu farsæld, en yðar eigin, því konan er eiginlega, eða má heita partur af yður sjálfum, hún er yðar lífshelmingur, hún er yðar líkami, þjer eigið að elska hana eins og Kristur, höfuð safnaðarins, elskar sinn líkama, sinn söfnuð, þjer eigið að elska hana, eins og yðar eigin líkama, því sá sem elskar eiginkonu sína, elskar sjálfan sig.

Þegar þið nú, elskulegu brúðhjón, elskið hvort annað þannig í hjónabandinu og uppfyllið skyldur ykkar hvort við annað, eins og jeg hef að framan talað um við ykkur, og þessi ykkar elska og skyldu uppfylling er jafnan sprottin af hinni sönnu og hreinu meðvitund að hugsa og breyta samkvæmt guðsboði og beztu samvizku, þá verður hjónaband ykkar sannkristilegt, þá er það byggt á þeim grundvelli til farsældarinnar, sem jeg áður sagði ykkur. Æ, byggið ætíð hjónaband ykkar á Kristi, hans anda, hans orði, og til þess allt af að geta það, þá þurfið þið að hafa fastan og iðuglegan fjelagsskap með Kristi, í trúnni á hann, í þakklæti, í bæn, gleymið ekki hans orði, heldur festið það æ betur í huga og hjarta; hvert sem leið ykkar liggur í heiminum, þá verið bæði saman í einum hug og hjarta trúrækin og bænrækin, biðjið guð á morgnana, að blessa ykkur farsæla, hugga leiða sjerhvern dag til enda, biðjið hann á kveldin, þegar þið leggist að sofa, þá biðjið hann að vera hjá ykkur á nóttunni með vernd sinni, með anda friðar, rósemdar, kærleika. Biðjið jafnan og þreytist ekki. Biðjið hann að gefa ykkur krapt og náð til þess æfinlega á meðan ykkur auðn-

ast að vera saman, að lifa saman í hreinni, trúfastri, kristilegri ást, í ástúðlegri og friðsælli sambúð og ótrufluðu samlyndi. Látið hjónaband ykkar, ástkæru brúðhjón, með áður áminnztri skylduríekt og þessu trúaða hugarfari, vera þannig sannkristilegt, gegnum allar biltingar ykkar lífs. Þá mun það líka hafa sín góðu áhrif á börn ykkar, ef guð ætlar að gefa ykkur þau til uppfósturs, eins og þið vitið, að skylda ykkar er, að ala þau upp í guðs ótta, iðjusemi og góðum siðum, og eptir því sem á þarf að halda með myndugleik og líka með ástúð. Ef hjónaband ykkar verður í öllu sannkristilegt, í kærleiksfullu ástúðlegu samlyndi, þá breiðir það frið, blessun, fegurð og ástúð út frá sjer til heimilislífsins, já, ef til vill lengra út í fjelagslífið.

Jeg held jeg sje nú orðinn nógu langorður og ætla að enda ræðu mína, þó mjer finnist, að jeg hafi enn sitt af hverju við ykkur ótalað, en fylgið öllu sem jeg hef brýnt fyrir ykkur, fylgið því allt af, meðan þið verðið saman, svo hjónaband ykkar verði ykkur til tímanlegrar og eilífrar farsældar.

Eilífur og náðarríkur guð gefi ykkur það, að sambúð ykkar, öll breytni ykkar, allt ykk-

ar hugarfar hjer í tímanum í meðlæti og mótlæti, í lífi og dauða verði sannkristilegt, svo þið fáið lifað í eilífum friði, sóma og sælu í eilífðinni. Almáttugur og algóður guð og faðir, gef þeim fyrir þinn son Jesúm Krist, að verða þannig sannfarsæl, hjer stundlega, en annars heims eilíflega. Amen. Í Jesú nafni. Amen.

---

## V.

# Húskveðja

haldin yfir líki

frú **Þorgerðar Runólfsdóttur**

að Grenjaðarstöðum 11. desemberm. 1857.

---

Í Jesú nafni.

Mjer finnst það svo margt, háttvirta elskaða sorgarsamkoma, sem gjörir það, að jeg er ekki fær um að tala eins og hæfir við þetta tækifæri, jeg verð að minnast á það, en jeg skal ekki eyða tímanum með því, að telja orsakirnar til þess; en samt, mitt í þessari tilfinn-

ingu, um það, hvað mig vantar til að geta það hæfilega, skal jeg þó tala eptir beztu samvizku, og í þeim sannleik og einlægni, sem jeg framast má.

Ó, drottinn, þú sem kallar mig á þennan stað, og býður mjer að tala, stjórna þú með anda þíns kraptar huga mínum og tungu, svo að orð þessi mættu verða þjer sjálfum velþóknanleg, og miða til þess, að helga sorgina, sem orsakast af þeim skilnaði, sem hjer er orðinn, og þú sjálfur hefur boðið að skyldi verða, miði til þess, að sálir þeirra, sem orð mín heyra, og harma yfir því, sem hjer er orðið, uppfyllist himneskum fögnuði, miði til þess, að vjer allir sannfærumst betur og betur um það, og sýnum það í lífi voru og í dauða vorum fyrir þjer og fyrir mönnum, að vor borgarrjettur er á himnum hjá þjer. Heyr það og bænheyr, eilífi kærleiksfulli faðir, í þíns sonar nafni. Amen.

Skilnaður er í eðli sínu alvarlegt orð, og því alvarlegri, því sárari, er skilnaðurinn, sem vinátta og sameining þeirra, sem skilja, hefur verið innilegri og nánari; því alvarlegri er hann líka, því fremur sem hann þá undir eins á að vera um lengri tíma. Alvarleg er því sú stund, þegar þeir skilja hjer við

oss, sem hafa verið tengdir oss með hinum sterkustu böndum kærleikans, skilja svo við oss, að vjer eigum ekki að fá að sjá þá framar í þessu lífi; alvöru stund er það, þegar vjer við það finnum hinar fínustu og viðkvæmustu taugar hjarta vors, ekki aðeins snortnar og særðar, heldur dettur mjer í hug að segja, að nokkru leyti hrifnar burtu með hinum burtvikna ástvin, þar sem oss finnst, og það má held jeg heita svo, að hann sje partur, eða líkt og skáldið sagði um vin sinn, helmingur vors lífs. Á þessu kæra höfðingsheimili, í þessu húsi, er vjer erum hjer samansafnaðir í, er ein slík sorgarstund, slíkur alvarlegur skilnaður. Augu vor allra hjer í þessu húsi eru stefnd í sömu átt, fram að þessum dökku fjölum, og þessi litur, hann svarar svo vel til tilfinninga vorra hjartna, vjer finnum það, því sorgin er í eðli sínu dökk og döpur. Þessar fjalir mynda ofurlítið hýbýli; sem er lokað vandlega á allar hliðar; ekkert sólar eða dagsljós kemst þangað inn, en hugur vor á samt ekki örðugt með, að þrengja sjer þangað inn, og hvað sjer hann þá þar? Hann sjer þar tilefni til sorgarinnar, sem nú særir hjörtu margra, nær og fjær, til táranna, sem

nú streyma niður eptir svo margri harmþrúnginni kinn, hann sjer ástvin, sem skilur við ástvini, hann sjer jarðneskar leyfar heittelskaðrar og mikilsvirtrar systur, sem vjer nú í dag ætlum að leggja til sinnar síðustu væru hvíldar; og þeir sem elskuðu hana svo innilega, og hún nú kveður í þessum húsum er hún hefur dvalið svo lengi í, þeir hvorki geta, nje vilja gleyma henni, þó þeir sjái hana ekki framar í þessu lífi, nei — þeir vilja enn, einmitt á þessari skilnaðarstundu sjá hana eins og afmálaða fyrir sínum hugskotssjónum, eins og hún var, þeir vilja halda eptir í sálu sinni einhverju andlegu málverki, sem þeim er svo dýrmætt. Ó, drottinn minn! á jeg að fara að draga upp þessa mynd, mjer finnst mig vanta svo margt til að geta það, en þú býður mjer það, og því skyldi jeg þá ekki hlýða þjer? — Þessari framliðnu systur vorri var jeg svo að segja öldungis ókunnugur, jeg sá hana að visu, en naut ekki þeirrar ánægju að hafa viðræðu við hana, eða heyra á tal hennar, þessvegna er ekki að furða, þó málverk mitt verði dauft, því þó sannorðir vinir, sem vel þekkja eitthvað, segi frá því, þá er það æfinlega svo, um hvað eina, sem mætir hinni skoð-

andi sál, að hluturinn sjálfur segir betur til sín, en sögusögnin um hann, eða lýsingin á honum. En þótt drættir mínir hjer verði daufir og óhönduglegir, þá skulu þeir samt vera sannir. Jeg legg þá fyrst til hvað mitt er. Þessi mikilsvirta höfðingskona talaði raunar ekki við mig með vörum sínum, en svipur hennar og allt hið ytra gjörði þó lík áhrif á mig, eins og það væri mál, mjer fannst hún þegjandi segja það, og lýsa því nokkuð, hver hún var, jafnvel fyrir ókenndum manni. Jeg segi það satt, að mjer virtist einhver elskuverð stilling og gætni, og það sem jeg einkum þóttist sjá, guðhræðsla hafa átt mikinn þátt í að mynda svip hennar, og gjöra hann svo blíðan og elskuverðan, að hinn ókenndi maður, sem tók eptir þessu, hann gat ekki látið það vera, að elska hana og virða. Mjer sýndist jeg sjá hjer yfirbragð, sem bæði sýndi mjer sakleysisblíðu barnsins, og um leið þann svip, sem líka sýnir jafnframt því blíða alvöru hins þroskaða og reynda aldurs; þannig birtist hún mjer í elli sinni, skömmu fyrir andlát sitt, á þeim tíma, er hún enn hafði, að mjer virtist, heilbrigða sál, í heilbrigðum líkama. Þetta er öll mín þekking á henni af

eigin reynslu. En jeg hefi líka seinna sannfærzt um, af sögusögn annara, sem þekktu hina framliðnu svo vel, að í sálu hennar bjuggu þeir eiginlegleikar, þær dyggðir, sem mjer virtist hinn elskuverði svipur benda á. Jeg skal þá enn fremur með fám orðum lýsa hennar sálareiginlegleikum, og hvernig þeir lýstu sjer, eptir því sem mjer hefur verið sagt. Hún var, svo jeg lýsi því með daglegu og vanalegu orðatiltæki, gáfuð kona og vel greind, enda lá hún ekki heldur sjálf á liði sínu, að efla gáfur sínar og að auðga, með því að æfa hugsun sína og hressa sál sína með lestri fróðlegra og uppbyggilegra bóka, þetta var einhver hin mesta skemmtun hennar í lífinu, svo hún var, að bóklegri menntun, sómi þeirrar höfðinglegrar stöðu, sem guð hafði sett hana í; það vita þeir, sem umgengust hana, hve greind hennar og lægni hinu góða til eflingar komu fram með einhverju svo snotru lagi, stilltum og hógværum búningi, mjög opt í fáum heppilega völdum orðum, sem höfðu í sjer fólginn yfirgripsmeiri sannleika eða leiðrjetting, og komu meiru góðu til leiðar, heldur en langar umræður og orð margra, sem vilja koma sínu fram. Það má með sanni segja, að hjarta

hennar hafi ekki aðeins verið blítt og viðkvæmt, heldur og styrkt og staðfast. Blíða hennar og hjartagæðska var auðsjen við alla, sem nokkur kynni höfðu af henni, hún ekki aðeins vermdi og gjörði ástúðlega umgengnina og sambúðina við ástvinina, heldur líka við þá, sem stóðu henni fjær, og sjer í lagi lýsti þetta sjer við alla sem bágt áttu, því fljót og örlát var hönd hennar til að gefa og hjálpa öllum sem voru volaðir og hún náði til, og það sem oss þykir svo fagurt, að gjafir hennar og hjálp voru augljóslega sprottnar af hennar kristilega, elskuríka viðkvæma hjartalagi, og að hennar vinstri hönd, eins og Kristur býður, vissi ekki hvað hin hægri gjörði (Matth. 6, 3). Jeg skal líka aðeins drepa á það, að viðkvæmni hjarta hennar mun hafa lýst sjer líka í því, að margt, sem hennar næmu og guðhræddu samvizku þótti vera eða fara miður, það lagðist þungt á hana, en þetta hefur máske opt ekki sjezt, því stillingin var frábær. Eins og viðkvæmni hjartans var mikil, eins var styrleiki þess, staðfesta og tryggð, og þegar þessir kostir hvorirtveggju koma saman, þá er það fögur samhljóðan, eins og hún er líka sjaldgæf. Ráð henn-

ar var ekki á reyki, það sem skynsöm og stillt sannfæring hennar bauð henni, því held jeg hún hafi optast komið fram með blíðu og hógværu þreki. Ástríki hennar, velvild og öflug tryggð við ástvinina var mikil. Hún viðurkenndi með þakklátu og auðmjúku hjarta fyrir drottni hina góðu og mikilsmetandi náðargjöf, sem vjer vitum hún var líka verðug fyrir — það er hinn mikilsvirta og mjög virðingarverða höfðingja, hvers ellidöpru en heiðursverðu kinnar hjer fljóta nú í tárum við líkkistu hennar, sinn elskaða og virta ektamaka, sem svo lengi og vel var henni samferða á lífsleiðinni. Hún ekki aðeins bar viðkvæma elsku til hans og styrkustu trúfesti, heldur líka bar hún ávallt svo mikla virðingu fyrir honum, eins og líka vert var. Hve mikil og fögur var líka viðkvæmni hennar og blíða við sín góðu og elskuverðu börn, sem henni voru með lífi sínu kostum og fullkomlegleikum, ástríki og eptirlátsemi til svo mikillar ánægju og sóma, og ekki aðeins við börn sín, heldur og sín elskuleg tengdabörn. Já, hennar blíða og viðkvæma hjarta, var eins við þau fyrst og síðast. En þetta verður ef til vill einna minnisstæðast fyrir þau tvö elskandi börn, sem

hjerna nærstödd úthella svo beiskum tárum, fyrir soninn og tengdadótturina, sem seinast umgengust hana, þau sem má með sanni kalla bæði saman hennar heitt elskuð börn, því svo var hún þeim báðum elskurík, minnisstæð verður þeim ástúð móðurinnar, allt til hennar síðasta andartaks. Og jeg veit líka, að allir þeir, sem nutu hennar ástúðlegu umgengni á þessu heimili, sem hún í dag yfirgefur fyrir fullt og allt, allir, skyldir og óskyldir, þeir finna hvert skarð hjer er höggvið, þar sem þvílík húsmóðir, guðhrædd elskuverð sóma og höfðingskona rýmir hjer sæti, því blíða hennar og góðsemd náði til allra án undantekningar, sem hún hafði umgengni við eða kynni af. — Og lítum þá aptur augum huga vors inn fyrir þessar dökku fjalir, og sjáum að þær geyma hinar stundlegu lífsumbúðir vorrar mikilsvirtu og heittelskuðu systur, sem vjer nú höfum virt fyrir oss, hvernig var; vjer vitum hver hún var, — en hvernig stendur á því vjer sjáum hana reyrða svo rambyggðum dauðans fjötrum? Hugur vor sjer hvernig hinn ískaldi, óvorkunláti dauði heldur henni í faðmi sínum, hann sjer, bæði hvað dauðinn er sterkur, og hvað hann er óvorkunlátur. Ekkert ráð, eng-

in meðul fá aptrað honum; vinir lífsins, og jeg meina sjerstaklega vinir lífsins, sem hjerna er sloknað, vinir lífsins, segi jeg, hafa fyrir þá náð, sem lífsins eilífi faðir hefur ljent þeim, áður nærri því eins og hrifið hana út úr dauðans járnefldu faðmi, en nú gefst ekki framar, frestur um augnablik. Já þannig er dauðinn sterkur og eins er hann óvorkunlátur: Heit og brennandi eru þau saknaðartár, sem hjer fljóta niður eptir kinnum elskandi ástvina, við þessa líkkistu, hún er fallin í faðm dauðans, hins harða ómiskunsama húsbónda, en hvað djúpur harmur sem býr í hinum syrgjandi og elskandi hjörtum, hvað sár og heit sem saknaðartárin eru, þá mýkist samt ekki dauðinn. — Ó, þú máttugi, kaldi, miskunarlausi dauði, þú, sem vjer sjáum innan þessara fjala, þú hælir þjer af styrkleik þínum, þú hæðist að hinum sárheitustu sorgartárum. En vjer skulum gráta eins fyrir því, þegar vjer sjáum hve fast þú heldur herfangi þínu, vjer grátum, þegar vjer sjáum þig halda því svona fast, sem vjer elskum. En vjer göngum nú samt í anda nær þjer, og stöndum óhræddir frammi fyrir þjer, þú fyrsti og síðasti óvinur lífs vor allra, og spyrjum þig: Hvert er

herfang þitt? Vjer sjáum það er andvana líkami, það eru jarðneskar leyfar, það er holdið, sem hlýtur að hverfa til jarðarinnar aptur, eptir boði hans, sem bæði er þinn drottinn, og líka drottinn lífsins, og þetta vald þitt er þá ekki loksins meira, en það, að þú ert sendur af drottni, til að flytja það til jarðarinnar; og, dauði! farðu þá til þíns eiginlega bústaðar, sem er gröfin með þessar jarðnesku leyfar vorrar framliðnu systur, vjer erum þess fullvissir, að þín ráð ná hjer ekki lengra, þangað munum vjer einnig innan stundar fylgja, og yfirgefa þær svo, að þær fái hvílzt þar, í hinu þögula rúmi, þar sem tárin ekki væta augað, sem nú er brostið, og hryggðin ekki særir hjartað, sem hjer er hætt að bærast. Þú, dauði, þú ert þá ekki annað, en sendimaður drottins, og vjer vitum að drottinn er eilífur kærleiki, — drottinn gaf, drottinn tók, drottins nafn sje lofað (Job. 1, 21). — Og vjer vitum meir en þetta, að holdið hlýtur að hverfa til jarðarinnar aptur, vjer vitum líka, að andinn hlýtur að hverfa til guðs, sem gaf hann (Prjed 12, 7). Og um hvað getum vjer verið vissari, en að þessi andi, sem hjer hefur yfirgefið sinn stund-

lega bústað, sje nú horfinn til guðs, sem gaf hann, sje nú inngenginn til sællar hvíldar, eptir langt og dyggilega unnið dagsverk, genginn inn í fögnuð síns herra, andi hennar, sem vjer með himneskum fögnuði og fullvissu getum sagt um, að hún hafi barizt hinni góðú baráttu, hlaupið fullkomnað og trúnni haldið (2 Tim. 4, 7). Heit og sár eru að vísu skilnaðartárin, háttvirtu elskuðu ástvinir hinnar framliðnu, því fögur var hennar breytni, ástrík hennar umgengni, viðkvæm hennar elska, og þjer vilduð háfa haldið henni sem lengst; en þegar þjer hafið trúna, sem þjer vitið að sigrar heiminn (1 Jóh. 5, 4, 5.), trúna, sem segir yður: Verði guðs vilji, ekki manna, því guðs vilji er ávallt beztur, og þegar þjer elskið guð og hina framliðnu sælu systur, fyllist þá ekki hjarta yðvart himneskum fögnuði? verða þá ekki hin beisku saknaðartár jafnframt tár sæls himnesks fagnaðar? Hugsið yður eins og forðum var sagt við Maríu, sem Jesús elskaði: Meistarinn er hjer og kallar á þig (Jóh. 11, 28). Já, meistarinn kallaði nú á hana, þessa yðar heitt elskuða framliðnu, og kallaði á hana til sín, og þjer, sem ætíð hafið elskað hana svo heitt, hvar

viljið þjer vita af henni framar? leyfið henni því að fara til meistarans; þjer vitið líka hún var ekki ófús að hlýða, þegar meistarinn kallaði, því þjer gleymið ekki þeim orðum, sem voru hennar einhver hin síðustu: „*Lofið þið mjer nú að deyja*“. Lofið henni að deyja, eða fremur lofið henni að *lifa*, því líf hennar hjer meðal yðar, fullvissar yður um, að hún hefur nú öðlazt þetta sæla og huggunarfulla fyrirheit frelsarans: *Hver sem trúir á mig, hann skal lifa, þótt hann deyi* (Jóh. 11, 25). Kærleikans meistari kallaði, af því hann vildi, að þeir sem faðirinn gaf honum, sjeu hjá honum, þar sem hann er, já hinn kærleiksfulli drottinn kallaði, hinn kærleiksfulli einmitt líka í því, að hrífa úr faðmi yðar elskuverðasta ástvin, því það batar yður, að hún fari hjeðan, því þegar yður gengur til hjarta auðn sú og tómleiki, sem hjer verður við þessa burtköllun, þá vitið þjer einnig, hvernig hinn eilífi kærleiksmeistari *er* hjer og kallar *yður* og segir: Komið til mín allir, sem erfiðið og þunga eruð hlaðnir, jeg vil endurnæra yður (Matth. 11, 28), já það batar yður að meistarinn *er* hjer og kallar hana, því þetta sannfærir yður svo vel um það,

að yðar föðurland er á himnum (Phil. 3, 20), en því öflugar, sem sá sannleiki ríkir í huga og lífi mannanna, því sælli eru þeir, það veit hver sem það reynir. — Meistarinn er hjer og kallar hana, eins og Maríu, sem hann elskaði, eins og Maríu, segi jeg, fremur heldur en eins og Mörthu, sem hafði mikla áhyggju og umsvif fyrir mörgu, jeg segi eins og Maríu, sem valdi sjer hið góða hlutskiptið, hið eina nauðsynlega, hún sem sat við fætur Jesú og hlýddi hans kenningu (Lúk. 10, 38—42), jeg segi þetta, af því þjer vitið, að hún, sem þjer elskuðuð, og drottinn kallar hjer, hún var ekki eins mikið með það, að mæðast í mörgu, með Mörthu, heldur valdi hún fremur hið góða hlutskiptið, hið eina nauðsynlega með Maríu, og hve opt hafið þjer ekki sjeð hana eins og sitjandi til fóta Jesú með Maríu, hlustandi á hans kenningu.

Drottinn hefur verið hjer og kallað hana heim til sín, hann er hjer ok kallar hana, og því kveður hún nú hjer í þessu húsi þá, sem henni voru dýrmætastir hjerna á jörðunni, hún kveður á þessari alvarlegu sorgar- og skilnaðarstundu ástríkan og mikilsvirtan ektamaka, með ástúð og þakklæti fyrir hina góðu sam-

búð og samvinnu á hinni löngu vegferð er þau voru saman í elskulegu hjónabandi, hún eins og breiðir nú sinn himneska forkláraða faðm á móti honum, þar sem hún nú er, við fætur síns meistara, því hún eins og væntir þess, að þessi skilnaður verði ekki mjög langur. Hún kveður hjer þar næst þau tvö elskandi börn, úr hverra elsku faðmi hún eins og síðast hnje í hinn k a l d a faðm, hún kveður þau með heitri ást og viðkvæmu þakklæti fyrir allt elskuríki við sig í lífi hennar hjer og nú síðast í hennar harða dauðastríði. Hún kveður eins með hinni sömu ást og viðkvæmu þakklæti öll sín elskleg börn nær og fjær, öll sín skyldmenni og vandamenn, alla sem nutu hennar sambúðar á þessu heimili og annarstaðar, hún kveður alla, sem henni voru kunnugir.

Þú sæli andi, þú hefur kastað af þjer þeim umbúðum, sem þú varst í klæddur meðal vor, þeim umbúðum, sem vjer geymum í þessari kistu, og vjer ætlum að flytja í hinn helgaða reit guðsbarna, ásvinir þínir, vinir og vandamenn, og allir, sem þig þekktu nokkuð meðan þú varst í klæddur þessum umbúðum, vjer viljum allir í einu eins og kveðja þig, og þakka þjer allt hið góða, sem þú fyrir náð hins ei-

lifa almáttuga anda hefur eptir skilið hjá oss, blíð og fagnaðarrík mun endurminning þess geymast í hjörtum vorum, minning þín mun æ vara hjá oss í blessun. Vjer kveðjum þig þá í Jesú nafni, eins og um stundarsakir, þú sæli andi, um stundarsakir, því vjer vonum fyrir drottins náð, að komast til þín síðar. Hinn eilífi friðarandi drottins faðmi þig að sjer eilíflega. Klæðnað þinn, sem hjer er enn í þessu húsi, hann skulum vjer nú undireins flytja í hús drottins, og staðnæmast þar hjá honum, til þess að heyra þar enn guðs orð oss til huggunar, og svo viljum vjer flytja hann þaðan til síns síðasta geymsluhúss, þar sem hann mun geymast, þangað til lúðurinn gellur, og drottins máttarraust gjörir hann dýrðlegri og fágaðri, heldur en hann var, meðan þú áður varst honum í klæddur. Svo í Jesú nafni þá skiljum vjer nú, bæði þú og vjer. Guð, hinn eilífi andi, og andanna faðir, hjálpi oss öllum til að sjá þig og vera hjá þjer, með sjer og öllum útvöldum. Amen. Í Jesú nafni. Amen.

## VI.

# Líkræða,

(haldin í Múlakirkju 4. nóvember 1858).

---

Í Jesú nafni!

Mikli guð, sem ríkir ofar öllum stjörnum, í hverjum vjer samt lifum erum og hrærumst! stjórnari himins og jarðar! drottinn lífs og dauða! náðugi faðir! Vjer biðjum þig, vertu á þessari stundu nálægur með þínum krapti, helga þessa alvörustund, svo hún með þýðing sinni og tilefni geti kennt oss að gleyma ekki hvað til vors friðar heyrir, kennt oss að vera sívakandi og minnugir vors dauðlegleika, kennt oss að halda oss af hug og hjarta til þíns himneska eilífa dýrðar og sælu ríkis. Helga sorgir þeirra, sem sýrgja, hugga þá og leið huggaða eptir þínum vegum. Styrk mál mitt, algóði faðir, við þetta tækifæri, svo það geti fært ávöxt til góðs, til helgrar alvöru, huggunar, sælu. Heyr það, faðir, í Jesú nafni. Amen.

Sálm. 4, 9.

Í friði leggst jeg fyrir, í friði sef jeg, því þú einn, drottinn! ert það, sem lætur mig búa óhultan.

Þessi orð eru eptir Davíð konung, hið mikla skáld, hann sem var, maður eptir guðs hjarta. Það sjest svo víða í sálmum hans, hve mikillega hann sjálfur fann til mæðu þeirrar og eymdar, sem hjer á jarðríki þjáir mannleg hjörtu, opt svo tilfinnanlega, eins og hann gat líka svo vel borið um það af eigin raun, hann talar opt um veikleika sinn, hve hann sje umkringdur af hættum, óvinum, og einkum talar hann þó um, eins og í sannleika sjerhver maður, hvað siðferðisgóður sem hann kynni að vera, ætti að gjöra, — þá talar hann um syndaeymd sína og yfirtroðslur. En — hann talar líka jafnframt því, með krapti og trausti um guðs óendanlega trúfesti og miskunsemi, sem huggar hann og gleður í öllum óstöðugleika lífsins og andstreymi þess. Þess vegna segir hann svo hughraustur og vonglaður: Í friði leggst jeg fyrir, í friði sef jeg, því þú einn, drottinn! ert það, sem lætur mig búa óhultan.

Mennirnir finna svo tíðum til vöntunar á

friði og rósemi, þeir finna það í stríði lífsins, margt er það, sem truflar rósemi þeirra og frið, bæði að utan úr heiminum, og frá þeirra eigin brjósti, þeir finna það á daginn, í starfa sínum og á hvíldartímum sínum, þeir finna það á kveldin, þegar þeir leggjast að sofa; þetta vil jeg jafnvel halda, að heimsæki alla menn meir eða minna; hvað er það þá, sem getur veitt sálunni frið og rósemi? hvað er það fremur en lypta huganum upp til hans, frá hverjum öll sæla og rósemi kemur, til h a n s, sem er guð friðarins frá eilífð til eilífðar, til hins trúfasta verndara Ísraels, sem ekki sefur og ekki syfjar, til hins almáttka föður, í hverjum vjer lifum, erum og hrærumst. Þetta eyðir órósemdar áhyggjum vökunnar, þetta dreifir friðsælli rósemd yfir lif og sál í svefninum, svo svefninn verður sætari og værari, og lausari við truflanir og órósemdir ógeðfelldra drauma, sem stundum vilja heimsækja menn. Hinn trúaði, sem veit, að guð vakir á hæðum yfir honum, eins í svefni sem vöku og upp lyptir í andakt og bæn hjarta sínu til hans, hann getur þannig sagt svo huggaður og sæll: *Í friði leggst jeg fyrir, í friði sef jeg, því þú einn, drott-*

inn! ert það, sem lætur mig búa óhultan.

Já, bræður mínir og systur! það er ekki aðeins nauðsynlegt og friðandi fyrir þá, sem í vökinni þjást af truflandi hugsunum, og hverra næturhvíld truflast af svefnleysi og ógeðfelldum draumum, það er ekki aðeins nauðsynlegt fyrir þá, að upplypta anda sínum í bæn og ákalli til guðs, opt og tíðum og ekki sízt, þegar þeir leggjast til svefns, nei — þess þurfa allir með, hvað rósamur og óhultur, sem maður kann að vera, því auk þess, sem sjerhver getur fundið og á að finna sinn andlega veikleika, sína andlegu þörf, en guðs góðgirni og miskunsemi, finna að hann er í öllu kominn uppá guð, eins þarf og sjerhver að hugleiða, hvað hjól gæfunnar er valt, það þarf lítið út af að bregða fyrir hverjum einum, lítil ógætni hans getur velt því um, lítil ósljetta eða hrufa á veginum, sem hann sjer ekki fyrir. Því skyldu þá ekki allir, á öllum tímum, lypta huganum til drottins, sem einn getur látið mennina búa óhulta? Því skyldi nokkur leggjast til hvíldar, án þess að ákalla guð, svo hann sje viss um æfinlega að geta lagzt fyrir í friði og sofið í friði? Það er eins og dag-

urinn ljósið og vakan kalli menn fremur út í stríð lífsins og blandi manni saman við heiminn, en nóttin, myrkrið og svefninn bendir manni fremur til einhvers, sem er meir hulið, ósýnilegt, já, ofar en þessi sýnilegi heimur, nóttin með sínum alvarlega svip bannar oss að líta og skoða með líkamlegum augum, en á minnir oss að skoða með augum andans, og hvert bendir hún þá manni fremur en til hins eilífa anda og anda skapara, til föðursins, frá hverjum allt faðerni er komið bæði á himni og jörðu, hún lætur oss skyggnast inn í hið eilífa hulda ósýnilega, og eins og sýnir oss, að vjer sjeum tengdir því einhverjum böndum, hún áminnir oss að leita þaðan vors friðar, vorrar vonar og huggunar, í sannleika minnir hún oss á það alvarlega, að leita drottins, sem einn lætur mennina búa óhulta. Sá sem þessari áminningu hlýðir, hann leggst fyrir í friði og sefur í friði.

En — ástkæru vinir! Líf vort á jörðunni er vaka, og dauðinn er svefn. Ef sjerhver dagur fyrir sig, sjerhver stund, er menn vaka kallar mennina til starfa á líkamlegan eða andlegan hátt í heiminum, kallar þá til að hafa ýmisleg mök við heiminn, án þess menn þó

megi gleyma guði og hans boðum, þá má vissulega kalla eins allt líf mannsins starfatíma. Sjerhverjum af oss er í lífinu fenginn sinn starfi, allir hafa nóg að vinna, drottinn hefur kallað sjerhvern af oss að vinna í sínum víngarði, eins og vjer líka höfum lofað honum trúmennsku og hollustu að vinna allan starfatíma lífs vors, allan vorn lífsdag, þar er enginn undanþeginn, því allir eru þjónar drottins, en enginn sinn eiginn húsbóndi, því hvort sem vjer lifum, þá erum vjer á drottins valdi, eða vjer deyjum, þá erum vjer á drottins valdi. Vinni því sjerhver á meðan dagur er, þ. e. á meðan hann vakir og getur starfað og verið drottni trúr á degi lífs síns, því nóttin kemur, og þá fær e n g i n n unnið. Nótt dauðans kemur eptir dag lífsins, yfir sjerhvern mann, því allir eru menn háðir fallvaltleik og synd, allir eru dauðlegir, og að öðru hverju sjáum vjer ýmsa af bræðrum vorum og systrum hníga í faðm þessarar dimmu nætur, menn sofna þannig, að þeir vakna aldrei framar til þ e i r r a r vöku, sem v j e r n ú vökum. Sje sú hin þögula og myrkva nótt alvarleg, í hverrar faðmi vjer hnígum á hverju kveldi eptir stríð og starfa dagsins og vök-

unnar, hvað þá hin síðasta nótt, í hverrar skaut vjer allir eigum að hníga, fyr eða síðar, sú nótt, sem slítur oss frá öllu, sem hjer í heimi er oss handgengið og kært, og leyfir oss aldrei að vitja þess hingað aptur, og vjer vitum ekkert um, hvernig um það fer, þegar vjer erum sofnaðir hinum síðasta svefni. Ó, hve þessi áfangastaður mannsins er alvarlegri, en allt annað! hvílík hlýtur sú alvara að vera, með hverri hver einn lítur í kring um sig í þeim sporum, lítur til liðins lífsdags, og til hinnar aðsvífandi, koldimmu, voðalegu dauðansnætur! ó, bágt, hræðilegt er það þá að hugsa til þess, að hafa verið ótrúr verkamaður drottins víngarðs í lífsins vöku, það gjörir hina koldimmu dauðans nótt svo skelfilega í augum hins deyjanda, það gjörir hinn síðasta og fastasta svef dauðans svo óútsegjanlega fyrirkvíðanlegan og geigvænlegan. Ó, hvað er alvarlegt, ef ekki þetta? Hvað er fyrirkvíðanlegt ef ekki það, að falla í hendur hins hlífðarlausa dauða, órósamur, nauðugur, örvæntingarfullur? Þá sjest, ef það sjest ekki áður, að öll jarðnesk, holdleg ósk var hjegómi; allur starfi mannsins, nautn hans, ánægja og hvild, sem ekki var samkvæmt guðs orði og góðri

samvizku, sem ekki var siðsamlegt og kristilegt, það særir og lemur hjarta hins deyjanda. Látum þá alvöru dauðans á minna oss í tíma, hugsum opt til hinnar skelfilegu stundar, sem á að koma yfir oss alla, og því sterkari verður sú hvöt og á minning fyrir oss, sem enginn veit, hve fljótt, hve nær, í hverju ástandi, dauðinn hittir oss; þetta á minnir dauði bræðra vor oss um, þetta er oss kennt frá unga aldri, en samt eru margir svo andvaralausir, samt hugsa margir með einhverju alvöruleysi, já, ljettúð um að vinna meðan dagur er, — meðan dagur er — ó, maður! þú veizt þó ekki nema þetta sje hin síðasta stund þíns lífsdags. Æ, látum oss því alla stunda að vaka vel og trúlega, starfa ótrauðir starfa lífs vors, vöku vorrar, forðast af alefli allt það, sem getur verið vorri trúmennsku, vorum lífsstarfa til hindrunar, og gleymum aldrei jafnframt því í öllum vorum veikleika að ákalla guð, því hans náð höfum vjer allt að þakka, hans forsjón þurfum vjer jafnan að treysta, því hann einn er það, sem lætur oss búa óhulta, vaka óhulta, lifa óhulta, sofa óhulta, deyja óhulta. Ó, að vjer í öllu lífi voru gætum verið þannig vakandi með trúmennsku og sannkristilegu trúartrausti og óbifanlegri trú!

hve huggunarríkt er það þá fyrir oss, við aðkomu hins síðasta svefns, að geta sagt: Í friði leggst jeg fyrir, í friði sef jeg, því þú einn, drottinn! ert það, sem lætur mig búa óhultan.

Jeg vildi nú frá þessum almennu íhugunum vorum útaf textanum reyna að ganga nær tilefninu til orða minna á þessum heilaga stað. Jeg vil heimfæra orð textans upp á þennan bróður vorn, sem hjer er nú sofnaður hinum síðasta svefni, hvers örendan líkama vjer geymum í þessari líkkistu. JÓN ÁRNASON hefur nú útendað lífsdag sinn og er sofnaður, hann vakir nú ekki lengur meðal vor, lífsdagur hans var ekki stuttur, eptir því sem vanalegt er, því aldur hans hafði yfirstígið 60 ár. Jeg veit að ættingjum hans og ástvinum hefði verið það ánægjuríkara að heyra ryfjuð upp nokkur lífsatriði hans, eins og mjer hefði líka verið það sjálfum ljúfara, en það er ekki mjer að kenna, að jeg er ókunnugur æfi hans; nema jeg veit, að hann var giptur, og átti tvö börn með konu sinni, sem við burtköllun hans nú er orðin ekkja. Bæði þessi börn eru á lífi, annað er heiðarlega gipt kona í fjarlægð, en hitt er unglingspiltur hjá móður sinni. Sama

máli er að gegna með það, hvernig maður hann var, það er mjer og að mestu ókunnugt. En jeg hef samt, að mínu áliti, þá þekking á honum, að það megi fullyrða það, að hann hefur nú lagzt fyrir í friði, af því hann treysti því, að drottinn einn ljet hann búa óhultan í tímanum og lætur hann búa óhultan í eilífðinni. Í fátækt hans mun líf hans hafa verið rósamt og friðsamlegt, hann mun hafa verið þolinmóður og umburðarlyndur við nánustu ástvini, þægðarmaður og friðsamur við þá, sem hann hafði umgengni við. Atgjörfi var honum veitt af drottni um fram marga aðra, bæði til sálar og líkama, því hann mun hafa haft í betra lagi greynd, hagsýnan anda, sem stjórnaði högum smiðshöndum. Þetta held jeg að jeg viti með fullkominni vissu um hinn framliðna bróður vorn, og mjer er þannig ekkert kunnugt um hann, nema gott og ráðvandlegt, þótt jeg viti sjálfsagt, að hann hafi ekki verið laus við einn eða annan galla, eina eða aðra synd, heldur en vjer hinir, allir aðrir menn. Eptir þessu hef jeg ekki orsök til, að efast um, að hann með sinnisrósemi hafi sjeð nótt dauðans nálgast, lagzt fyrir í friði og sofnað í friði; enda var ekki á honum að sjá,

hans síðustu þungu þjáningardaga, annað en frið og rósemd, og þegar hann þóttist þess viss, að dauðinn, eins og var, væri nálægur, og hann ljet sækja mig til að styrkja trú sína og samvizkufrið, og til að geta öðlast sæla sátt við hinn himneska föður, fyrir nautn hans sonar heilaga líkama og blóðs, viku fyrir andlát sitt, þá gat jeg í sannleika ekki annað fundið en hjarta hans væri sannarlega rósamt og friðað, hann virtist með undirgefni undir guðs voldugan og kærleiksfullan vilja að bíða síns lausnardags. Mjer fannst það einhvernveginn á honum, að hann segja með þessu: „Þegar dauðans nótt dregst yfir mig, þá leggst jeg fyrir í friði og sef í friði, því þú einn, drottinn! ert það, sem lætur mig búa óhultan.“ Jeg þykist eins viss um það, að hann með hinni sömu þolinmæði og stilltu trausti og biðlund hafi lifað hinar síðustu þjáningarstundir sínar, guð hafði líka þegar fyrir löngu áður eins og vanið hann til þolinmæði í þessum sínum sjúkleik, brjóstveikinni, því hann hafði þegar mörg ár þjást af þessum sjúkdómi, sem dró hann til bana, þó hann hafi máske ekki þurft að halda við rúmið hans vegna nema nú á þessari sinni banalegu. Og þessi veiki, eins og hennar eðli er í raun og

veru, mun hafa leyft honum að halda ráði fram undir andlátið, svo hann því betur dag og nótt, mitt í því sem sjúkleikinn var að leysa sundur hans hrörlegu líkams tjaldbúð, gat hugsað til þess drottins, sem hann vissi að einn gat látið hann eilíflega búa óhultan, hann gat í sárindum sjúkdómsins, í svartnætti dauðans, litið augum vonarinnar, trúarinnar og traustsins inn til hinna sælu bústaða föðursins, sem taka á móti sálum trúaðra guðsbarna, þegar þeirra jarðneska íbúðarhús, hinn dauðlegi líkami, er óhæfilegur orðinn þeim til íbúðar. Til þessara sælu átthaga drottins, til hinnar himnesku Jerúsalem, hefur sál þessa vors framliðna sæla bróður svifið og flogið, fyrir guðs náð í Jesú Kristi, sem leysti hana frá þunga syndarinnar, hún hefur þannig, fyrir þessa guðs náð, flogið frá þessum sínum leifum, sínu jarðneska hjervistarhúsi, sem vjer geymum núna í drottins húsi innan þessara dökkvu fjala, og ætlum að flytja í hinn helgaða reit guðs barna, hún hefur flogið á vængjum vonarinnar og trúarinnar, til hinna eilífu sælu bústaða föðursins. Eilífum og náðugum guði sje lof fyrir frelsi sálar þessa hins þjáða gamalmennis. Gleðjumst hans vegna hreinum og himneskum

fögnuði, við þessa frelsun og burtköllun vors sæla bróður, því hann lagðist fyrir í friði og sofnaði í friði, hann sefur í eilífum sælum friði, eða fremur vakir í eilífum sælum friði, þar sem hann nú hefur vaknað til hins blíða friðarmorguns eilífðarinnar. Þetta sje huggun nærstaddrar eptirþreyjandi ekkju hins framliðna; af elsku hennar til síns burtsofnaða ektamaka spretti sæl huggun og gleði yfir hans lausn frá heimsins mæðu til eilífrar sælu. Treysti hún guðs góðu forsjón í sorg og mótlæti þessa lífs, í öllu lífi sínu, því vissulega mun guð þá láta hana búa óhulta, huggaða tímanlega og sæla eilíflega, því guð er forsvar ekknanna í lífi og dauða, ef þær með trú og þolinmæði treysta hans miskun. Hinn sami náðugi faðir mun hugga hinn unga föðurleysingja, sem hjer syrgir misstan elskaðan föður, læri hann að treysta drottni, sem er faðir föðurlausra, stundi hann að fá að erfðum dyggðir föðursins, því sá arfur er betri, en allur arfur tímanlegra gæða, sem hann fær ekki neinn eptirskilinn af föður sínum, því dyggð er gulli dýrmætari.

Sæli bróðir! Þú ert sofnaður í friði, því þú treystir þeim eina drottni, sem lætur þig búa óhultan. Lifðu svo og vaktu á eilífðar-

innar fagra degi frelsaður og sæll í faðmi hins blessaða dýrðar og kærleiksföður. Vjer flytjum jarðneskar leifar þínar í hinn helgaða reit, til að bíða þar upprisu rjettlátra. Þú ert sofnaður í friði, lifðu í friði hjá friðarins guði á friðarins landi í eilífum sælum friði. Amen.

---

## VIII.

# Líkræða,

(haldin í Neskirkju 5. d. febrúar 1859).

---

Prjed. 7, 1. 3.

Gott mannorð er betra en gott salve, og dauðadagurinn er betri en fæðingardagurinn; hryggð er betri, en hlátur, því dapurt andlit getur betrað hjartað.

Þessi texti, sem mjer finnst eiga vel við þetta alvöru tækifæri inniheldur, eins og auðsjeð og auðskilið er, helzt þrjú atriði. Prjedíkarinn lofar þar gott mannorð, hann lofar lausnardag hins deyjanda frá fallvöltu synda

og eymdalífi þessa heims; og hann talar um kosti eða gagn hryggðarinnar.

Þegar prjedíkarinn er búinn að tala um hjegóma heimsins, og hvað það sje heimskulegt, að festa sig of mjög við heiminn, eða setja von sína á hið hverfula, þá talar hann um gott mannorð eins og ráð við hjegómanum, og segir þannig: Gott mannorð er betra en gott salve. Þessi orð textans innihalda, eptir því sem jeg benti til lof góðs mannorðs. Gott mannorð er betra en gott salve, — betra en gott salve: Það er betra en öll sýnileg gæði, betra en öll önnur tímanleg eptirsókn, betra en skemmtig nautn jarðneskra gæða, betra en auður, betra en upphefð og metorð. Gott mannorð er betra en þetta allt saman, því allt þetta tímanlega og sýnilega hverfur, eyðist og missist, og hefur heldur ekki í sjer fólgna hina sönnu verulegu og varanlegu huggun, en gott mannorð er betri eign en allt þetta, því þessi fagra og eptirsóknarverða eign huggar þann, sem hana á í lífi hans hinni sönnu staðföstu huggun og gleði; þegar hann með dyggðum sínum gætir allt af þessarar eignar vandlega, þá hefur hann líka allt af huggun af henni mitt í öllum ó-

stöðugleik og byltingum lífsins, mitt í mæðu stríði og skorti. Og þó að maðurinn deyi, og hverfi hjeðan fyrir fullt og allt, þá skilur hann þá eptir þessa eign hjer í heimi, hann skilur eptir hið góða mannorð, hina ágætu eign, og þótt hann sje horfinn, þá á hann hana samt hjer eptirskilda, því — eptir lifir mannorð mætt þótt maðurinn deyi — hann á hana og enginn nema hann, þó hann lifi í fullsælu annars heims, þá á hann þó sitt góða mannorð hjer í heimi æfinlega, heimurinn getur varla annað en geymt þessa eign hans fyrir hann, sem enginn sviptir hann, og þótt tíminn kynni að glata henni hjer í heimi, þá geymir eilifðin hana þó annars heims á himnum og þar glatast hún aldrei. Eins og það liggur í anda allra orða prjedíkarans, að hann talar um það mannorð, sem samfara er ráðvöndu hjarta, grandvarri sál og góðri samvizku, eins skuluð þjer og vita, að jeg á þessum stað tala ekki um annað gott mannorð en það, er maður í sannleika veit það um sig, eptir beztu meðvitund, að maður verðskuldar gott mannorð. Og eins og hjer er varla mikill tími til að tala mjög langt um það, hve slíkt gott mannorð er góður og ágætur hlutur, eins virð-

ist mjer þess ekki sjerleg þörf, að lýsa því ítarlega, því það er skiljanlegt nærri því hverju barninu, hve ánægjuríkt, hve sælt, hve gagnlegt það er að hafa á sjer gott orð, hafa gott mannorð, og vita sig verðskulda það, því án þeirrar meðvitundar er það tómt huggunarsnautt nafnið. En hve mikið hlýtur það ekki einkum að hugga og gleðja góðan og ráðvandan mann, þegar hann á stíga hið alvarlegasta fótmál, þegar hann á fyri fullt og allt að yfirgefa allt hið sýnilega þessa heims, allt sem honum var þar kært og handgengið: Um leið og hann þá í bæn, í stöðuglyndi, þolinmæði og trú mænir á vonarstjörnu hins eilífa alsæla lífsins, þá lítur hann nú líka og lætur hugann hvarfla um þann heim og það líf, sem þá er að hverfa hans döpru auga, og hann hressist, hann gleðst svo innilega fagurri og barnlegri gleði, þegar hann sjer þá og hugleiðir ráðvendni sína, grandvarleik og dyggð síns hjervistarlífs, sem hann veit, að fyrir trú hans á Jesúm Krist, muni verða sjer til eilífs lífs og eilífrar sælu, og hin góða meðvitund hans hreina hjartalags sjer, að hann skilur eptir hjer, sem sína ævarandi eign, gott mannorð, sem hafði verið hans stöðugur fylgjari, huggari og

hjálpari í lífinu, það gleður hann, að hið góða mannorð hans verður nú eptir í heiminum til þess að tala þar máli dyggðar og ráðvendi, til að hvetja menn til að feta í fótspor hins ráðvanda, sem skilur eptir sig gott mannorð, hann veit það sjer til huggunar, þegar hann hlýtur að skilja við ástvini, náunga, vini, að hans grandvara breytni, og eptirskilda góða mannorð er þeim svo veruleg og sannarleg huggun, hann veit þá, að sár söknuður þeirra, getur helgast og fegrast af því, að vita hinn góða ráðvanda elskaða vin, ekki aðeins frelstan frá synd og eymd þessa lífs, og sælan annarsheims, heldur og geymdan í elskandi hjörtum manna þessa heims, minning hans geymda í blessun. Hinn deyjandi veit hvað þetta er ánægjuríkt fyrir hina eptirþreyjandi, hvað þeir gleðjast, ekki aðeins af hans fullsælu, heldur og af hans eptirskilda góða mannorði. Hann finnur þá einkum við dauða sinn, hve sæl og góð eign gott mannorð er, eins og líka hver maður finnur, bæði fyrir sjálfan sig og þá, sem manni er vel við. Þetta sje þá líka alvarleg hvöt, fyrir alla oss, að stunda eptir góðu mannorði, eptir góðu sönnu mannorði, ekki hjegómlegu nafni mannorðsins, heldur því

mannorði, sem er eign þess manns, sem stundar í öllu lífi sínu að hafa alltsjáanda alstaðarnálægan guð fyrir augum sjer í öllum hlutum, því slíkt gott mannorð eykur hugarósemi, ávinnur manni elskendur og vini, eykur huggun og sælu lífsins og huggun, hjartastyrking og hugarrósemd í dauðanum. Stundi þannig sjerhver, eptir fyrirmynd góðra og ráðvandra manna, eptir góðu mannorði, því gott mannorð er hins ráðvanda manns ágætasti hlutur, það er bezta eign í lífinu: Gott mannorð er betra en gott salve.

Dauðadagurinn er betri en fæðingardagurinn. Með þessum orðum lofar prjedíkarinn lausnardag hins deyjanda frá fallvöltu synda og eymda lífi þessa heims. Jeg þarf varla að fara að sanna það fyrir yður, kærir vinir, að hið jarðneska líf sjerhvers manns er hlaðið eða umkringt ýmsum ófullkomlegleika, synd, mæðu; þetta er satt og byggt á óbrigðulli reynslu, og hver, sem móti því bæri, hann þekkir aðeins lítið til lífsins. Stríð, synd og mæða fylgir hverjum manni, meira eða minna frá vöggunni til grafarinnar, já hið glæsilegasta og meðlættasta líf þessa heims, gjörir hjer frá enga undantekningu; það reynist hverjum

manni satt, fyr eða síðar, optar eða sjaldnar á æfi hans, sem Sírach (40, 1—4) segir: Mikil armæða fylgir hverjum manni og þungt ok liggur á Adamssonum, frá þeim degi, er þeir fæðast af móðurlífi, allt til þess dags, er þeir hverfa aptur til móður allra, sífelld sorg, ótti, vonaráhyggjur og loks dauðadagurinn, allt frá þeim, sem í hásæti situr í dýrð, til hins er niðurbeygður er í dupt og ösku, frá þeim sem ber purpurakórónu, til þess, sem hylur sig með stríga. Hjer í þessum orðum Sírachs er mikill sannleiki sagður og það með fullkomnun, fegurð og nákvæmni. Þennan sannleika skilja allir og viðurkenna, varla getur mjer annað hugsast: Eins og barnið byrjar að gráta á samri stundu og það er fætt í þennan heim, til þessa jarðneska lífs, eins verður maðurinn aldrei laus við einhverja ófullkomlegleika, takmarkanir mæðusemdir, hvort sem lífdagarnir verða margir eða fáir: eins og maðurinn byrjar lífið með eymd og gráti, eins er endi þess ekki hvað minnst ógnarlegur og ógeðfelldur. Samkvæmt þessari einföldu hugleiðingu sjest þá, að fæðingardagurinn er

byrjunardagur eða upphaf hinna jarðnesku mæðusemda, en dauðadagurinn er endi þeirra með fullu og öllu. Þetta er einföld, en þó sönn útskýring á orðum prjedíkarans, er hann segir, að dauðadagurinn sje betri en fæðingardagurinn. En jeg er samt ekki búinn að skýra þetta atriði enn þá til hlýtar. Ætlið ekki, elskuðu bræður og systur, að jeg ætli að fara að gjöra lítið úr hinum mörgu og margvíslegu gæðum þessa jarðneska lífs, sem hinn eilíflega góði gjafarinn hefur gætt með mannanna börn, nei — slíkt væri óviðurkvæmilegt vanþakklæti við hinn eilífa miskunara, hinn eilífa náðarríka föður. Lof og þakkir sjeu honum, margt meðlæti og mörg gæði hljótum vjer af hans föðurhendi, oss til auðmjúkrar og þakklátrar nautnar og ánægju, oss til gagns og farsældareflingar, eins og líka margt ógeðfellt og stríðsamt er oss sjálfum að kenna, og vjer megum vissulega líka opt játa, það sem stendur í sálminum, að „skál vors mótgangs, sem afmæld er, aukum með harmi sjálfir vjer“, og guðs orð inniheldur svo margfalda lækningu, við sjerhverri synd og sorg, svo margvíslega huggun, og kennir oss að skoða mótlætið rjett, og láta

það þjena oss til góðs, með því að varðveita æfinlega hina hreinu og föstu trú á hinn kærleiksfulla guð, því allir hlutir þjena þeim til góðs, sem elska guð, en það er ekki von þeir þjeni þeim til góðs, sem ekki elska guð. En samt hverf jeg aptur til þess, sem jeg sagði áðan, að líf sjerhvers manns á jörðunni er meir eða minna aðþrengt af synd og sorg, af hinu ógeðfellda og ófrjálsa, hin hreinasta gleði lífs þessa er hverful, hið glæsilegasta meðlæti er ekki varanlegt, ekki áhyggju eða óttalaust, og opt ekki án einhverrar leynilegrar eða opinberrar sorgar eða mæðu. Þannig er nú lífið á jörðunni, og þannig á það að vera og ekki á annan hátt, því hin eilífa speki, og hinn eilífi kærleiki hagaði því þannig, því hann einn, sem heiminn gjörði, sá hvað honum var hentast, hann einn sem lífið gaf, þekkti kröfurnar, sem það átti að hafa sjer sjálfu til fullkomnunar og farsældar, eins og skáldið segir: „Guð það hentast heimi fann, það hið blíða blanda stríðu; allt er gott sem gjörði hann“. Þess vegna er líf mannanna og lífskjör svo undarleg og óskiljanleg, ef ekki ósanngjörn, fyrir vorri takmörkuðu og daufu sjón, og svo yrði æfinlega, ef vjer litum ekki

uppfrá þessu lífi, upp frá jörðunni, þar sjáum vjer, þegar vjer lítum til himins, uppyfir allt fallvalt, mótlætt, tímanlegt, uppyfir sjálfan dauðann, þá sjáum vjer með trúarsjón anda vors, eilíft líf, sem frelsari vor, Jesús Kristur, sem er upprisan og lífið, hefur oss opinberað og heitið, þegar þessa heims fallvalta líf er á enda. Þar er nú ekki aðeins endi og takmark allrar syndar, eymdar, sorgar, heldur er þar hryggðarlaust eilíft líf, eilíf ótrufluð sæla, sem enginn maður á þessari jörðu fær útmálað eða ímyndað sjer nema með ófullkomnum takmörkuðum lýsingum, skáldlegum hugsunum og andlegum myndum eða málverkum guðhræddra og guðelskandi sálna. Og þótt þekking vor á eilífri sælu sje nú svona lítil og ófullkomin, þá er hún þó nóg til þess, að vjer getum sannfærzt um, að dauðadagurinn er sannur lausnardagur, lausnardagur frá allri synd og yfirhöfuð öllu ógeðfelldu, sem hjer áreitir hvern mann, og að dauðadagurinn um leið er eins og fæðingardagur til hins eilífa alsæla lífs. Þessi þekking vor á hinu tilkomanda lífi eptir dauðann er nóg til að sýna það, hve þeir eru óumræðilega sælli, sem þangað eru komnir, heldur en vjer, sem hjer lif-

um nú, hið alsæla líf er óútmálanlega betra en hið sorgblandna, hið eilífa betra en hið stundlega, og því er byrjunardagur hins eilífa lífs betri en byrjunardagur hins stundlega, byrjunardagur hins sorglausa sælulífs, betri en byrjunardagur hins sorgblandna lífs; hve sönn og áreiðanleg eru því orð prjedíkarans, að dauðadagurinn er betri en fæðingardagurinn.

Hryggð er betri en hlátur, því dapurt andlit getur betrað hjartað. Sá sem aldrei hefur eiginlega reynt mótlæti sorg og söknuð, mundi líklega naumast trúa þessu eða skilja það, og orð mín mundu líklega verða of veik til að sannfæra þann um sannleika þessara orða prjedíkarans. En sá sem þó vill líta rjett á lífið, og skoða það vel og kristilega, hann mun sannfærast um það. Hláturinn, sem er eins og hin fullkomna, hin mesta auglýsing glaðværðarinnar, sem aptur er ávöxtur meðlætisins, hláturinn, segi jeg, eins og glaðværðin yfirhöfuð er í sannleika svo viðunanleg og ánægjuleg öllum mönnum; það er samkvæmt eðli voru, og það er enganveginn móti guðs orði, eins og Kristur sjálfur, vor fullkomna fyrirmynd, var henni ekki frásneidd-

ur, og það er líka víst um það, að kostir glaðværðarinnar eru margir: hún gjörir sambúð manna sætari, elskulegri, innilegri, hún ljettir lífsins byrði og starfa, verndar eða styrkir heilsuna, lengir lífið, það er að skilja hin sanna, leyfilega, saklausa, kristilega glaðværð. En, bræður mínir og systur, hve mjög hættir mönnum ekki til, að láta glaðværðina verða öðruvísi en hún á að vera, hve opt gleyma menn þá ekki því, sem mest er í varið, að láta hana vera saklausa, hreina, auðmjúka, þakkláta. Það er svo mjög almennt, að menn gleyma því, að glatt yfirbragð og ánægja kemur frá góðum guði, frá gjafaranum allra góðra hluta, menn gleyma að gefa guði dýrðina í undirgefni og auðmýkt, margir breyta þá hugsa og tala svo í glaðværðinni eða meðlætinu, eins og þeir ættu hjer aldrei við að skilja, margir hugsa þá svo heimslega og holdlega, að þeir gleyma því, að einskis manns líf getur verið nje á að vera glaðvært án alvöru, glaðvært án sannrar varhyggðar og aðgæzlu á hinu æðra, andlega, himneska, sannarlega sæla. Athygli manna á þessu, hinu n a u ð s y n l e g a s t a, á sælu eilífs lífs, á takmarki mannanna gegnum dyggð til sælu vekur meðlæti og glaðværð hjá

fæstum, en mótlæti og sorg eru aptur ágætasta meðal til þessa. Þegar hinar jarðnesku styttur, hinar jarðnesku vonir bregðast, þá er maðurinn fremur en á glaðværðartímunum svo alvarlega áminntur um að snúa huganum upp yfir hið jarðneska, menn læra af þessu svo vel, að temja sjer umgengni við himininn, umgangast guð í bæn um styrk og aðstoð, menn læra og æfa sig í að hugsa gott og guðlegt, en þetta er meðalið til að öðlast hreint hjarta; sorgin betrar þannig hjarta mannsins, hún er því betri, dýrmætari, kröptugri, gagnlegri en glaðværðin eða hláturinn. Þessi orð prjedíkarans eru því dýrmæt sannmæli, sem vjer megum óhætt fallast á. Hryggð er betri en hlátur, því dapurt andlit getur betrað hjartað. Eða er það ekki dýrmætt gagn hryggðarinnar, að hún betrar hjartað? Jeg veit það raunar eða mjer sýnist það á mörgum, að það sje svo, að þeir skeyti ekkert um að betra hjarta sitt, hugsunar hátt sinn, hugarfar sitt, en hugsa einungis eða fremur öllu um, að hafa glaðvært hjarta — hvort sem glaðværðin er hrein og leyfileg eða ekki — heldur en hreint, en jeg vildi af einlægri elsku óska þeim mönnum, að þeir yrðu sviptir hinni svik-

ulu værð síns óhreina hjarta, en fengju að kenna á mótmæli, sem gæti leitt þá til drottins, svo þeir í tíma lærðu að þekkja sinn vitjunartíma, lærðu að hafa umgengni við guð í himninum, lærðu að hugsa hreint ráðvandlega og kristilega. Það er sannarleg vissa, að hryggðin er náðargjöf guðs, til þess menn verði fullkomnari, fyrir eigin frjálsar aðgjörðir, fyrir betrun og hreinsun hjartans, fyrir bæn til guðs, trúrækni og bænrækni; þannig elskar guð mennina, með því að senda þeim mótlæti, svipta þá ástvinum, því hvern sem drottinn elskar, þann agar hann. Hryggð er manni því opt svo heilsusamleg fyrir manns hina æðri þröf, miklu meir en glaðværð, sem svo opt tælir og freistar, og hefur meiri þýðing og tilgang fyrir þetta líf en hið tilkomanda, æðra, eilífa. Prjedíkarans orð eru því sönn og áreiðanleg: Hryggð er betri en hlátur, því dapurt andlit getur betrað hjartað.

Þannig hef jeg lagt út af þeim texta, sem jeg tók mjer fyrir, og hef hugleitt þau þrjú atriði, sem jeg fann í honum, það er: lof góðs mannorðs, lof dauðadagsins, og kostir hryggðarinnar. Og þó hugleið-

ingar mínar hafi verið almennar, þá held jeg og hef hugsað, að þær allar eigi við þetta alvöru tækifæri, við þessa alvörustund, og jeg vil hafa talað svo einfalt og skiljanlega, að þjer sjalf gætuð heimfært textann og hugleiðingar mínar út af honum uppá tækifærið, nokkurnveginn nákvæmlega, og það svo, að jeg álít mig ekki þurfa langrar sjerstakrar heimfærslu. En heimfærsla mín uppá tækifærið verður þá þessi:

Tvö hin fyrri atriði textans og orða minna, er jeg hef sagt að framan, heimfærist til hins framliðna bróður vors, sem vjer í dag fylgjum til moldar, og hið þriðja heimfæri eptirþreyjandi ástvinir hans til sín.

Það er mjer sannarleg gleði, að geta heimfært þau orð, er jeg áður tiltók um gott mannorð, upp á þennan vorn framliðna bróður, sem er húsbóndinn Magnús Jónsson, hvers andi nú hefur yfirgefið sinn jarðneska bústað eða leifar, sem eru í þessari kistu, hið andvana hold, er vjer í hinum helgaða reit viljum í dag innvígja til upprisu rjettlátra. Hann hafði því láni að fagna í lífinu að vera elskaður og afhaldinn fyrir ráðvanda og grandvara breytni, og hans hlutskipti var þannig bezta

mannorð; hvar sem hans var getið, þá var hans, eptir minni beztu vitund, getið að góðu, og þeir sem hann þekktu vissu það vel, að hann verðskuldaði þetta, því þeim virtist líf hans og breytni jafnan lýsa því, að hann í engu vildi vamm sitt vita. Hann var ráðvandur, tryggur og trúr, iðjusamur eptir kröptum og heilsu, sparsamur og hófsamur, sjerþóttalaus, spaklyndur og þæglyndur. Jeg er ekki sá, sem ætla að fara að setja hól uppá menn hvorki lífs nje liðna, meir en þeir eiga, jeg held enginn ætli mjer það heldur, og ef jeg hæli þessum manni um of, þá gjöri jeg það ekki vísvitandi, heldur af vöntun á kunnugleik, því jeg fer mest eptir því, sem mjer hefur verið sagt um hinn framliðna og er mjer að öðruleyti en því, sem hjer er sagt með öllu ókunnugt um sálareinkenni hans eða hvernig þau lýstu sjer í lífinu. Greind held jeg hann hafi haft heldur í betra lagi, eptir því sem almennt gjörist, og víst hefur hann verið gefinn fyrir bækur fremur sumum öðrum. Hann var kvæntur og búandi og varð í hjónabandinu þriggja barna auðið, og nú harmar hjer eptirþreyjandi ekkja hans látinn elskaðan ektamaka, og föðurlaus börn syrgja elskaðan föður.

Aldur þessa bróður vors varð ekki mjög hár, hann náði hinu 55. aldursári; en líf hans var samt nógu langt, því fyrir utan það, að nú var hans dauðastund komin, samkvæmt kærleiks og vísdómsráði hins eilífa guðs, og vjer sáum líka, að hann hafði lifað nógu lengi í þessum heimi, sem svo mjög er settur þyrnum mótlætinga og synda, og þar sem hann víst hefur átt í stríði við ýmislegt mótlæti sjálfsagt fátækt og líklega heilsulasleik og máske fleira, og hann var einkum búinn að lifa nógu lengi, af því hann lifði vel, kristilega og ráðvandlega, og var víst búinn við dauðadegi sínum, og gat því fagnað honum, sem sínum lausnardegi, á hverjum hann var frelsaður, fyrir frelsarann Krist, frá mæðu þessa tímanlega lífs, og sem varð byrjunardagur hins alsæla eilífa lífsins, sem nú er orðið hans hlutskipti; til hans má því í sannleika heimfærast það, er jeg áður talaði um, að dauðadagurinn er betri en fæðingardagurinn, og guði eilífum og kærleiksfullum sje lof fyrir hans frelsi, frið og fullsælu.

Vjer getum því, hvað sjálfan vorn framliðna bróður snertir samfagnað anda hans af hjarta, glaðst yfir frelsi hans og fullsælu; það

getum vjer allir, sem þekktum hann nokkuð, og það geta líka eiga og mega gjöra ástvinir hans; þó sár og heit saknaðartár kunni að verma kinnar þeirra, er þeir missa hjeðan úr þessum heimi elskaðan ástvin og eru sviptir hans ánægju og aðstoð, þá getur hjer vissulega blandast saman við sorgina himneskur hreinn fögnuður yfir þeim ábata, sem varð á hlutskipti hans, og þetta getur í sannleika verið veruleg huggun í harmi hinna eptirþreyjandi ástvina, að þeir vita, að honum líður nú svo óumræðilega betur, en honum leið meðal þeirra.

En jeg vildi líka, hjartkæru ástvinir hins framliðna! og hvað helzt ávarpa jeg yður, eptirþreyjandi harmandi ekkja! jeg vildi að þjer skoðuðuð rjett sorg og mótlætingar, og að það gæti verið yður til huggunar, og bendi jeg yður þá til þess, sem jeg sagði áðan um sorgina, er jeg hugleiddi orð prjedíkarans: Hryggð er betri en hlátur, því dapurt andlit getur betrað hjartað. Jeg bendi yður til þess, sem jeg sagði, hve gagnleg og heilsusamleg sorgin getur verið fyrir manninn, því hún er svo blessað meðal sent af drottni til að kenna manni að hafa umgengni við guð á

himnum í bæn og ákalli, sorgin auðmýkir að vísu opt, en hún gagnar samt, því hún opnar augu manns fyrir og brýnir fyrir manni hverfulleik og fallveltu hins tímanlega og heimslega og lagar hjartað fyrir hið staðfasta, verulega eilífa, svo hjartað verði betrað og hreinsað; en, að hjartað verði betrað og hreinsað, það er í sannleika eptirsóknarverðara en allt sem eptirsóknarvert er í heimi þessum, því *hreinhjartaðir munu guð sjá*: betrun hjartans og hreinleiki eru skilyrði fyrir rósemi samvizkunnar, sælu guðs barna og friði um tíma og eilífð. Þjer skuluð þá, hjartkæra ekkja meta mikils orð prjedíkarans: *Hryggð er betri en hlátur, því dapurt andlit getur betrað hjartað*; þau sjeu yður til huggunar og farsældareflingar. Á einhvern hátt mun guð sjá með miskun og trúfesti og speki fyrir högum yðar og barna yðar, treystið drottni af öllu yðar hjarta, hann mun vissulega koma öllu vel til vegar, og þótt þjer ættuð enn við töluvert stríð og mæðu að berjast, þá er samt ekki síður fyrir það guð á himnum allra faðir, sem agar af elsku, og hefur eins og sanngjart er og rjettlátt hagað því svo, að oss byrjar gegnum margar hörmungar inn

að ganga í guðsríki. Þessi orð mín hjer að framan sögð, ásamt þeim huggunum, sem guð sjálfur sendir yður og segir úr sínu orði, þau huggi yður nú í harmi yðar, hryggð og mótlæti, og með þessu hinu sama skuluð þjer hugga börn yðar, sem misst hafa elskaðan föður og sakna hans. Guð leiði yður og börn yðar á sínum vegi, huggaða, friðaða, gegnum þetta líf inn til hins eilífa alsæla, og gefi yður að samfagna þar ástvini yðar, sem þjer nú grátið og saknið, ásamt öllum yðar ástvinum og hans. Ó, drottinn gefi oss, af sinni náð, að njóta þar hjá sjer eptir stríð og mæðu þessa lífs, hins eilífa lífsins, sem er friður og fögnuður í heilögum anda. Amen.

---

## VIII.

# Orð

töluð yfir líki ungbarns,

(22. ágústm. 1858).

---

Í Jesú nafni.

Leyfið ungbörnunum til mín að koma, og hindrið þau ekki frá því, því þeirra er guðsríki. Þessum orðum finnst mjer guð nú ávarpa oss, við þetta tækifæri,, í hverju vjer nú stöndum, er vjer erum að fylgja ungbarni til moldar. Hinn eilífi blessaði mannvinur og barnavinur hefur kallað þetta barn til sín, af því hann vildi, að það væri hjá sjer, því hvergi er betra að vera, en hjá Kristi, hjá honnm, sem sagt hefur til síns himneska föður: Jeg vil, að þeir, sem þú gafst mjer, sjeu hjá mjer, þar sem jeg er, svo þeir sjái mína dýrð (Jóh. 17, 24). Hann vildi að þeir væru hjá sjer og föðurnum, þar sem býr eilíf sæla, eilífur sæll friður, þar sem er friður og fögnuður í heilögum anda, í þeirri sælu, sem ekki hefur eyra heyrt, ekki auga sjeð, ekki í nokkurs manns hug, eður hjarta komið, hvað guð hefur fyrirbúið þeim, sem hann elska (1 Cor. 2, 9). Sælir,

bræður mínir og systur, eru þeir, sem burtsofnaðir eru til slíks fagnaðar, í sambúð hins blessaða friðar og frelsishöfðingja og frelsara, sælir eru hinir frelstu, þeir sem í eilífum guðs allt umfaðmandi friði, hvíla í eilífum sælu faðmi, sælir eru allir þessir, segi jeg, sem eru lausir við hina margvíslegu eymd, hið margvíslega ófrelsi, sem hjer dagsdaglega þjáir mannanna börn á þessu landi stundarinnar, takmarkanna, ófrelsisins, syndarinnar, sælir eru þeir, sem eru lausir við þetta allt saman; þetta ættum vjer að geta samsynnt, þetta ættum vjer að kunna að meta, vjer, sem þekkjum, hve það er tíðum bágt, mótlætt og örðugt að búa í þessum stundaheimi. Eru þá ekki b ö r n i n sæl, sem þegar í upphafi síns jarðneska lífs, eru kölluð hjeðan, til hins blessaða alsæla frelsara á himnum, til hans sem hátíðlega og með þvílíkri ástríkri viðkvæmni hefur sagt: L e y f i ð u n g b ö r n u n u m t i l m í n a ð k o m a o g h i n d r i ð þ a u e k k i f r á þ v í, þ v í þ e i r r a e r g u ð s r í k i (Mark. 10, 14). Sæl eru þau, að losast úr þessu, áður en mótlætið fer að særa þau og kvelja, áður en syndin fer að blekkja þau áður en freistingarnar fara að hrjá þau, því sæll er sá þar frelsast frá og friðar náir tíma. Foreldrar og systkyn þessa ungbarns; sem hjer er liðið lík! L e y f i ð u n g b a r n i n u a ð k o m a t i l f r e l s a r a n s, þ v í þ e s s e r g u ð s r í k i. Þið forfeldrar! Ykkar viðkvæma foreldra ást hefði líklega viljað óska, að hinu elskaða lífi, sem hjer er hrifið frá ykkur, að því, segi jeg, hefði

verið unnt að dvelja í faðmi ykkar, ykkur til ánægju, ykkur til huggunar, og, ef til vill, til seinni styrks, þið hefðuð viljað óska þess, þó heimkynni ykkar sje bústaður fátæktarinnar, því þið gátuð vonazt til guðs miskunar, að hann mundi ala önn fyrir þessu lífi, eins og svo mörgum öðrum, sem ykkur tilheyra og öðrum, en Leyfið ungbarninu að koma til Krists, og hindrið það ekki frá því. því þess er guðsríki. Þið megið að visu, eða það er náttúrlegt, að þið úthellið einhverjum viðkvæmnis eða saknaðar tárum við það, að þetta ykkar unga líf er hrifið frá ykkur, þið megið gráta, því tárin eru fögur, þau eru fórn sem elskan eða ástin fórnar, sú fórn, sem upp stígur til hins eilífa miskunara; það er mannlegt, það er náttúrlegt, þó þið grjetuð barn ykkar, en — þess er guðsríki, og, hve sælt er það nú? Hve vel líður því nú? Guð veri lofaður fyrir þess frelsi. Leyfið því þá að fara, því þess er guðsríki; mænið augum trúarinnar og vonarinnar til þess, þar sem frelsarinn faðmar það að sjer svo blítt, fast og ástúðlega, það er komið þangað, og þið vonið fyrir frelsarans mildi og meðalgöngu, að koma þangað til þess einhverntíma; lifið í þessari von, þá verða tárin helg, þá verða þau himnesk og sæl huggunartár. Elskuðu litlu systkin þessa ungbarns! Heyrið hvað systur ykkar líður vel, æ, gott á hún, samfagnið henni, blessuð litlu börnin, einhverntíma verðið þjer svona sæl, ef þjer verð-

ið allt af góð börn, einhverntíma komizt þjer til yðar litlu sælu systur, í hinn blessaða, í hinn sæla og blíða faðm frelsarans, til að búa þar hjá yðar litlu burtsofnuðu systur eilíflega. Börn góð, leyfið ungbarninu að koma til Krists, því þess er guðsríki.

Sæla ungbarn, þjer leyfum vjer að koma til Krists, og hindrum þig ekki frá því, því þitt er guðsríki. Sæla barn, hvíl í blessuðum faðmi frelsarans eilíflega. Drottinn veiti oss öllum náð til, að koma þangað til þín. Ó, vjer viljum allir rósamir ganga í ljósi þessarar vonar, hún lýsi oss í öllu myrkri lífs vors, þangað til vjer fáum komizt inn til hins albjarta ljóssins, hins eilífa lífsins. Friður guðs hvíli yfir því dupti, sem þinn andi hefur hjer eptir skilið, friður guðs hvíli yfir moldum þínum í hinum helgaða reit guðs barna. Amen. Í Jesú nafni. Amen.

---

Kosta í kápu 40 sk.

